þá yss mikill ok brak í höllinni, var þá sótt at Hrólfi konungi ok hans mönnum. Tóku þeir þat ráð, sem konungr kendi þeim, at sá geck fyrstr út, er síðast geck inn. Hrólfr konungr geck síðast út ok hopaði öfugr ok hafði skjöldinn fyrir sér, en
5 sverðit í hendi. Er svá sagt, áðr en hann komz út, at hann dræpi tíu menn, ok er þeir kómu út, sá konungr, at engi vóru efni á til viðrtöku sakir liðsfjölda. Var þat ráð þeirra, at leita undan at sinni. Skorti þá eigi óp ok eggjan, er staðarmenninir geystuz út eptir þeim, hverr fram um annann æpandi,
10 báðu [suma leggja, suma höggva, suma skjóta.[1]) Er svá sagt, at þeir Hrólfr konungr ríða undan ok skilr svá með þeim, at flestir urðu því fegnir, er undan kómuz. Er nú ei sagt frá ferð þeirra fyrr en þeir kómu heim í Gautland. Spyrjaz nú þessi tíðindi ok þótti þessi ferð vera hæðilig.[2]) Svá er sagt,
15 at eptir elting þessa, er Svíar höfðu elt þá Gautana, fara þeir aptr til hallarinnar; spurði konungr þeirra, hvárt þeir kendi þenna mann, er þá hafði heimsótt. Þeir sögðu, at hann hét Hrólfr ok var konungr í Gautlandi; er hann auðkendr, segja þeir, sakir vaxtar ok vænleiks. Konungrinn segir: skjótt kend-
20 um vér hann at frásögn manna ok eru slíkt afburðarmenn ok mun vera vitr maðr ok þolinn ok sýndiz mér maðrinn staðfastligr ok svá skulum vér viðbúaz, sem þessi maðr muni vitja optar á várn fund Svíanna. Skulum vér leita at smiðum ok láta virki gera harðla styrkligt ok rammgert ok búa síðan með
25 þeirri vélfimi at helzt megi duga til varnar. Er þat ætlan mín, at þessi konungr hyggi [á hefndir[3]) við oss. Verðr þetta nú alt gert eptir hennar vilja ok fyrirsögn.

## 10. Bardagi Hrólfs konungs við Ásmund.[4])

[Þar er nú til at taka, at Hrólfr konungr kemr heim í
25 Gautland. Gengr Ketill í móti hónum harðla vel.[5]) Spurði

---

1) sumir l., sumir h., sumir sk. *T, ohne genaue Entspr. ACF.* 2) in háðugligasta *F,* in hæðiligasta *AC.* 3) á hendr *A, aber* á hefndum *C.* 4) *Cap.-Überschrift nur in S.* 5) *Abgeschnitten vom obern Rande S, das* Þ *von* Þar *ist noch deutlich; eingesetzt nach T.* Nú er þar til at taka, er Hrólfr konungr kom heim til Gautlandz ok gengr Ketill í móti hónum ok fagnar vel bróður sínum *FG,* Þar er nú til at taka, er Hrólfr konungr kom heim í Gautland, ok eigi erindum feginn. Ketill, bróðir hans, gengr í mót hónum ok spyrr . . . *A, ebenso C, doch ohne* ok eigi erindum feginn.

Ketill at um ferðir þeirra, eða hversu gengit hafi meyjarmálin. Konungr sagði hónum, sem farit hafði. Þá mælti Ketill: slíkt er mikil skömm, at þola einum kvennmanni, at láta elta sik [sem hundar eða stóðhestar, merar.[1]) Veit ek víst, ef ek hefða farit þessa ferð, at heldr skylda ek eigi hafa aptrkomit ok 5 fyrri skyldim vér hafa þar fallit, [hverr um annann[2]) en þolat þvílíka vanvirðu, at eltaz sem ragar geitr ok mun yðr þat í hug, at láta eigi lengi óhefnt vera ok mun nú þegar safnat liði ok herjat til Svíþjóðar. Hrólfr kvez víst ætla at herja ok þó ecki til Svíþjóðar at sinni. Ketill mælti: þetta er illa 10 orðit, er Svíar hafa elt or yðr allan hug, er þér þorið ei at hefna yðvar. Konungr kvez ecki hirða mundu um forz hans eða metnað, kvez sínum ráðum mundu framfara, var hann um þetta fátalaðr, sem mart annat, hvárt sem hónum þótti vel eða illa. Líðr af vetrinn ok um várit býz konungr or landi ok er 15 hann er búinn, heldr hann í hernað um sumarit ok hefir fimm skip ok öll stór ok velskipuð. Vóru þeir báðir með hónum, Ketill ok Ingjaldr. Þeir herjuðu víða um Hjáltland ok Orkneyjar, um Suðreyjar ok Skotland; varð þeim þá gott til fjár, ok er áleið sumarit, ætluðu þeir heim at fara. Ok eitt 20 kveld lögðu þeir undir ey eina ok tjölduðu þar yfir skipum sínum. Konungr geck upp á eyna með nöckura menn. Þeir sá öðrum megin undir eynni, at skip lágu níu saman; sá þeir, at þat vóru herskip. Konungr geck ofan til skipanna sínna. Hann bað Ketil, bróður sinn, skjóta báti ok róa út til skipanna 25 ok forvitnaz, við hvern höfðingja þar væri at eiga. Hann gerði svá, reri út at skipunum með nöckura menn ok kallaði þegar ok spurði, hverr höfðingi væri fyrir skipunum. Maðr stóð upp í lyptingu á drekanum, mikill ok vænligr. Hann tók til orða: þessi heitir Ásmundr, segir hann, eða hvert er 30 erindi yðvart hingat á várn fund? Ketill mælti: mik sendi Hrólfr konungr, at segja yðr, at hann mun hér koma á morgin ok vill hafa fé yðvart ok skip, en brytja yðr hröfnum ok vörgum, nema þér vilið ganga upp á eyna með vápnum ok klæðum, en gefa upp skip yður ok fjárhlut. Ásmundr segir: 35

1) sem hunda eða stóðhestar, merar *S,* sem hunda eða hestar, merar *T,* sem hundar eða stóð *F,* (at vera eltr) sem merr í stóði eða hundr á stöðli *A, ebenso C aber* naut í stöðli. 2) hverr um þveran annann *AF, fehlt C.*

vitum vér, at Hrólfr Gautreksson er ágætr maðr ok frægastr í hernaði. Nú þar sem ek em konungsson, en höfum ærit lið til varnar, þá seg svá Hrólfi konungi, at vér munum eigi uppgefaz at óreyndu; skulum vér hafa fimm skip móti yðr. Eptir 5 þetta fór Ketill aptr ok segir bróður sínum, Hrólfi konungi, sem háttat var, kvað þetta vera inn vænasta mann ok inn bezta dreng. Um morguninn bjögguz við hvárirtveggju, lét Ásmundr liggja hjá fjögur skip, tóku þeir síðan at berjaz. Var þessi bardagi [bæði harðr ok ákafr[1]), var ok Ásmundr 10 bæði harðfengr ok ákafr ok eigi þóttiz Hrólfr konungr jafnhrausta menn hafa fyrirfundit; fell mart af hvárumtveggjum. Konungr sá, at ecki mundi mega í tveim höndum hafa, snarar til uppgöngu ok hans menn. Var þá mannfall mikit, fellu þá menn Ásmundar, hljóp hann þá fram í skipit mót Hrólfi 15 konungi. Funduz þeir með nöckura menn ok skiptuz höggum við ok beraz þá sár á Ásmund, ok er Hrólfr finnr þat, mælti hann, at þeir skyldu taka hvíld; hefi ek nú verit í hernaði nöckur sumur ok hefi ek engan fundit þér fræknara. Eru nú tveir kostir, Ásmundr! annathvárt, at þeir menn ganga á skip 20 yður ok búiz við í annat sinn ok reynum þá [til fullz[2]); hinn er annarr, at vér setim grið ok frið með oss. Vil ek bjóða þér, Ásmundr! fóstbræðralag [ok gerum svá trausta ockra vináttu. Ásmundr kvez þat gjarna vilja, ef þér leggið ei ámælisorð[3]) á bak mér eða liði mínu. Hrólfr konungr kvez ei 25 hafa fundit hraustari menn fyrr. Eptir þat bað Hrólfr konungr þá hætta at berjaz, var þá brugðit upp friðskildi, leggja þá undir eyna hvárirtveggju, vóru þá bundin sár manna. Vóru hroðin tvau skip af Ásmundi, en eitt af Hrólfi konungi. Eptir þat skiptir Ásmundr liði sínu, skipar eitt skip at vápnum ok 30 mönnum harðla vel ok ráðaz til ferðar með Hrólfi konungi, en annat lið sitt sendir hann aptr til Skotlandz, en þeir halda aptr ok létta ei fyrr en þeir koma heim til Gautlandz. Virðiz Hrólfi konungi Ásmundr inn vaskasti maðr.

---

1) bæði harðr ok langr ok ákafr *ACF.* 2) til þrautar *ACF.* 3) *Abgeschnitten bis* — orð *vom obern Rande S, eingesetzt nach T, die aber nur* trausta ockra (*ohne* vináttu) *hat;* ok bindum trausta vináttu. Ásmundr kvaz þat gjarnan vilja, ef þér virðið oss þat ecki til ámælis . . . *FG,* gerum svá trausta vára vináttu. Ásmundr svarar ok kvez þat vilja, ef þér leggið eigi ámælisorð . . . *AC.*

## 11. Draumr.

Sitja þeir þar um vetrinn í góðum friði ok mikilli gleði. Jafnan minti Ásmundr Hrólf konung á, nær hann ætlaði at vitja meyjarmálanna í Svíþjóð ok eggjaði mjök, at þeir freistaði við þá Svíana. Konungr var þar jafnan fátalaðr um, en hafði mikla skaprann af eggjan Ketils, bróður síns. Ok er váraði, býz Hrólfr konungr or landi ok hafði sjau skip öll velbúin ok it agætasta lið, gerir bert fyrir liðinu, at hann ætlaði þá til Svíþjóðar. Bað konungr Ketil, frænda sinn, þá eigi eptirvera, vóru þeir allir fóstbræðr í þessarri ferð, halda síðan til Svíþjóðar ok koma þar við land nær Uppsölum. Ok sömu nótt, er þeir vóru við land komnir, dreymdi dróttning Eiriks konungs enn sem fyrr ok segir hónum frá: ek þóttumz enn úti standa ok var mér enn víðsýnt; ek sá til sjávarins ok þat með, at hér vóru skip komin við land eigi allfá ok af skipunum runnu vargar margir ok fyrir vörgunum var it óarga dýr ok þar með hvítabirnir tveir harðla miklir ok vænligir. Fóru þessi dýr öll jafnfram, en fram í milli dýrsins óarga ok annars bjarnarins hljóp fram göltr mikill. Hann var svá grimmligr ok illiligr, at slíkt hefi ek ecki sétt, hann fór rótandi, sem hann mundi öllu umsnúa. Var hann ófrýnn, svá at fram stóðu öll hárin eptir hónum ok lét þetta kykvendi, sem þat mundi á alt upphlaupa. Nú þickjumz ek vita, þar sem it óarga dýrit er, at þat er fylgja Hrólfs konungs Gautrekssonar, svá sem ek sá fyrr, en þó var þat nú miklu ófrýnligara ok öll sýnduz mér dýrin miklu grimmligari en fyrr ok runnu þegar á leið til Uppsala. Eirikr konungr mælti: en hvat ætlar þú, hvers fylgja göltrinn sé, sá inn illiligi, er þú sátt, þvíat sú fylgja var ecki næstum með dýrunum ok ecki meirr en eitt bjarndýrit? Hón mælti þá: sagt heyri ek, at Hrólfr konungr eigi bróður, er Ketill heitir, manna minnztr ok skjótligastr, fullr ákefðar ok ofbeldis ok inn vaskasti til framgöngu. Þat er ætlan mín, at þessi göltr sé hans fylgja, þvíat hann var ecki næstum með Hrólfi konungi, bróður sínum, en þar sem tveir vóru hvítabirnir, get ek Hrólf konung hafa fengit sér nöckurn ágætan mann til fylgðar, konung eða konungsson. Gerið nú svá vel, herra! ok haldið öllu sáttmáli við Hrólf konung. [Mun hann

þess vitja ætla[1]) ok mundu þó margir bráðlátari verit hafa slíka för, sem hann fór á Ullarakri at því, sem vér heyrðum.

## 12. Hrólfr konungr kominn á Ullarakr.

Um morguninn var konungi sagt, at Hrólfr konungr var
5 þar kominn. Sendir hann þegar menn til hans ok býðr hónum heim til veizlu með öllu liði sínu ok þetta þiggr Hrólfr konungr. Eirikr Svíakonungr gengr í mót hónum með allri hirð sínni ok inum mesta prís ok gleði ok sitja þeir þar nöckurar nættr í inum mesta fagnaði. Skorti þá eigi, at Eirikr konungr
10 veitti Hrólfi konungi it höfðingligasta ok öllu hans liði. Ok einn dag, er þeir sátu við dryck, spurði Eirikr konungr, hvárt Hrólfr konungr ætlaði at vitja [meyjarmálanna. Hann kvez enn hætta til skyldu, hversu gengi. Konungr mælti: þar munu menn bæði viðþurfa[2]) ráða ok harðfengi. Er oss sagt, at
15 hón hafi inn mesta viðbúnað, hefir hón leitat at inum mestum smiðum ok látit gera it framligasta virki með inum mesta hagleik ok margskonar vélfimi. Ætlum vér þat eigi auðvelt at vinna. Nú vil ek efna við yðr alt, þat sem ek hefi heitit ok unna yðr ráðs þessa með ríki því, er hón hefir stýrt, ef þér
20 fáið unnit, þar til er vér látum af landzstjórn. Hrólfr konungr þackaði konunginum herrasamlig ummæli, kvez eigi beiða framarr af hans hendi. Eptir þat búaz þeir í brott ok létta eigi fyrr en þeir koma á Ullarakr, þar sem konungsdóttir réð fyrir, þóat hón skyldi heldr þar konungr heita eptir hennar vilja ok
25 ríkdómi. Ok er þeir kómu þar, skorti eigi þys ok vápnabrak í bænum; sá þeir þar margskonar viðrbúnað. Konungr bað þá slá þar tjöldum sínum ok búaz um ok vinna síðan virkit, bað þá Ketil, frænda sínn, atganga, kvað hann þegar mundu unnit geta með áhlaupum ok ákafa ok orðaskrumi. Hann kvez ætla
30 at at ganga sem einnhverr annarr hans manna.

---

1) því ek hygg, hann sé til þess hingat kominn, at vitja meyjarmálanna *FG*, mun hann nú ætla, at vitja meyjarmálanna *AC*. 2) *Von* málanna *bis* -þurfa *abgeschnitten vom obern Rande S, eingesetzt nach T, wo aber* mun *steht für* munu; meyjarmálanna ok kvað þar viðþurfa bæði ráð ok harðfengi . . . *F*, meyjarmálanna. Hann léz enn á þat mundu hætta, hversu sem tiltækiz. Konungr mælti: nú mun svá fara, sem ek sagða þér fyrr, at við þetta mál muntu þurfa, ef þú skalt nöckru áleiðis koma, bæði ráð ok harðfengi . . . *A*, *ebenso C doch ohne* ef þú skalt — koma.

## 13. Unnit virkit.[1])

Eptir þetta leituðu þeir til, at vinna virkit ok fengu ecki atgert. Fóru þess engan veg at, at ei kæmi ráð ráði í mót. Þeir báru eld at; hljóp þá vatn or hverjum trésenda. Þeir gengu at ok ætluðu með vápnum at vinna ok fella virkit; var þá helt út vellanda vatni ok brennanda biki. Fengu þeir þar af stórliga ilt, vóru bæði meiddir ok barðir, þvíat ei skorti mannfjölda í virkinu ok báru á þá bæði grjót ok vápn. Fellu þar nöckurir menn, en fjöldi meiddiz, gengu þeir frá bæði móðir ok sárir. Gerðiz illr kurr í þeim Gautunum ok þótti hart við at eiga, en þeir Svíar spottuðu ok hæddu, eggjuðu þá atgöngu ok frúðu þeim hugar, báru út gull ok gersimar, pell ok silki ok allzkonar dýrgripi ok törruðu fyrir þeim ok báðu þá eptirsækja. Konungr spurði Ketil, hversu hónum þætti at fara. Hann kvez heldr erfitt þickja ok seinliga ganga; [þicki mér konungr þeirra Svíanna heldr heitu míga. Konungr kvað vera mega[2]), at meira þyrfti við en rasa fyrir ráð fram. Ásmundr bað þá konung leggja til nökkut ráð, þat er dugði; höfum vér nú setit hér hálfan mánuð ok hér viðfengiz ok er nú eigi nærr en fyrr, en fengit þó nöckut manntjón ok mun ei duga ráðalaust, ef vér skulum sigr hafa; eða hversu lengi skal ein lítil mær spotta oss með ráðum ok undanbrögðum? Konungr bað þá fara til skógar ok gera[3]) flecka marga ok stóra ok bera undir virkit; skipaði þar undir sterkum mönnum ok stórum, skipaði þá at mönnum ok lét vinna virkit. Var þá hægt við at komaz, er ecki tálmaði; tóku fleckarnir við öllum sendingum virkismanna. Skorti þá eigi áeggjan, klið ok kall, er hvárirtveggju höfðu. Lýkr svá með ráðum ok vélum Hrólfs konungs, at þeir geta unnit virkit, ok er þeir koma upp í virkit, þá er þat eytt af mönnum ok öllu braut rutt, litaz þá um ok þickjaz ei vita, við hver brögð þeir vóru komnir. Leita nú um virkit ok finna niðrgöngu, var þar gengit í jörð niðr ok kómu fram nær skógi einum. Var þar fyrir mikit lið ok búit til bardaga, tókz þar þegar in ákafasta or-

1) *Cap.-Überschrift nur in S.* 2) *So AC,* þicki mér Svíarnir míga nú heldr heitu. Hrólfr konungr kvað ... *F,* þicki mér konungr þeirra Svíanna heldr mega heita konungr en kona, kvað vera mega ... *ST.* 3) binda *ACF* (binda oss stórar byrðar *AC*).

rosta, höfðu Svíar miklu fleira lið. Þat sá Hrólfr konungr, at Svíakonungr barðiz harðla hraustliga ok hjó á báðar hendr ok heldr ómeyliga. En svá er sagt, þegar þeir stóðu jafnhátt með framgöngu þeirra fóstbræðra, þá brestr flótti í liði þeirra
5 Svíanna. Ketill[1]) kom svá nær konungi Svía, at hann [sló flötu sverðinu um lendar henni ok kvað þat heita klámhögg. Konungr kvez hætta[2]) mundu ok rekaz eigi lengr eptir þeim, kvað nú mundu lokit inu mesta ofstæki konungs þeirra.

14. Snúa síðan aptr í staðinn ok sitja þar um hríð, en
10 frá Þórbjörgu er þat at segja, at hón ferr með því liði, er undan komz þar til, er hón kemr til Uppsala á fund Eiriks konungs, föður síns. Tekr hann við henni báðum höndum ok bað hana leggja styrjöld ok samþyckjaz Hrólfi konungi ok hlíta hans forsjá.[3]) Hón kvað þá ecki annat gera mundu.
15 Hón kastaði þá af sér herklæðum ok öllum konungligum búnaði[4]), en tók upp kvennzligan búnað, svá sem heyrði til ríkri mey ok konungs dóttur; geck hón þá í skemmu ok settiz á dýnur hjá móður sínni. Var hón hverri mey fegri ok fríðari at öllu ok kurteisari, svá at engi fannz jafnfríð í allri norðr-
20 hálfu heimsins, vitr ok vinsæl, rík ok stórráð, stórlynd ok stórgjöful, málsnjöll ok [spök, ráðug[5]) ok hæg.

## 15. Brúðlaup Hrólfs konungs.[6])

Eptir þetta sendir Eirikr konungr menn á fund Hrólfs konungs ok lætr bjóða hónum til veizlu með liði sínu. Bregz
25 hann við skjótt ok ferr með sínu liði, ok er konungr spyrr þangatkvámu Hrólfs konungs, gengr hann mót hónum með miklu liði ok allzkonar dýrð ok fagnaði. Talaz konungar þá við, hefr Hrólfr konungr þá enn meyjarmálin á nýja leik. Var þat þá auðsótt við konung með því, at hann vissi þá vilja

---

1) Hrólfr *S, doch unterpunktiert und am Rande in* Ketill *gebessert; s hat ebenfalls* Hrólfr. 2) *Bis* -tta *abgeschnitten vom obern Rande S, eingesetzt nach T,* (at hann) sló flötu sverðinu um lendar henni ok kvað þetta heita klámhögg. Hrólfr konungr kvaz hætta mundi . . . *F,* (at hann) sletti flötu sverði um lendar konungi ok greip hann ok mælti *AC.* 3) *Mit* forsjá *beginnt das Fragment a; vor* forsjá *ein Wort unleserlich, wahrscheinlich* yðvarri *vgl. FAS. III 104.* 4) skrúða *FT, ohne genaue Entsprechung AC.* 5) spakráðug *AaC, ohne genaue Entsprechung F.* 6) *Cap.-Überschrift nur S.*

dóttur sínnar. Fóru þar þegar festar[1]) fram; var þá aukin veizlan ok boðit til múga mannz um Svíakonungs veldi; kom þar saman mikit fjölmenni. Var þessi veizla ágæt ok stóð mánuð, ok at lokinni veizlunni gefr konungr öllum nöckurar gjafar, þeim sem hónum þóttu mest verðir í Svíakonungs veldi. 5
Ferr síðan hverr heim til síns ríkis ok óðala. Hrólfr konungr sendir Ketil, bróður sínn, heim í Gautland ok setr hann þar höfðingja yfir. Ingjaldr fór heim til Danmerkr. Hrólfr konungr sat eptir í Svíþjóð ok Ásmundr, fóstbróðir hans; eignaðiz hann þá þann hluta [ríkis, er[2]) konungsdóttir hafði áðr stýrt. 10
Tókuz með þeim góðar ástir, sá hón brátt, hvert afbragð Hrólfr konungr var annarra manna. Sitja nú þau misseri allir í frelsi ok náðum glaðir ok kátir.

## 16. Lát Hrings konungs.[3])

Um várit eptir kómu sendimenn af Danmörk með þeim 15
tíðindum [frá Ingjaldi[4]), at þeir sögðu lát Hrings konungs ok þat með, at Ingjaldr bað Hrólf konung koma, at drecka erfi eptir Hring konung, fóstra sínn. Ok þegar er konungr spyrr þessi tíðindi, býz hann or landi ok þeir Ásmundr báðir ok höfðu tvau skip, halda síðan or Svíþjóð ok til Danmerkr. 20
Kom þá Ketill til mótz við þá ok hafði eitt skip velskipat, koma við Sjóland á síðkveldi ok leggja undir ey eina ok tjalda yfir skipum sínum. Geck konungr upp á eyna með nöckura menn. Þeir sá skip liggja öðrum megin undir eynni fimm saman. Vóru þat langskip fjögur ok dreki it fimta, 25
bæði mikill ok fagr ok ei þóttiz konungr sétt hafa jafnfagrt skip. Svörtum tjöldum var tjaldat yfir skipum þessum. Konungr mælti: hverr mun stýra dreka þessum inum ágæta ok ei hefi ek sétt þann grip, er ek vilda heldr eiga en skip þetta. Ásmundr segir: víst er þetta afburðarskip fyrir allra hluta 30
sakir ok væri slíkt helzt konungsgersemi; en þann einn ætla ek stýra [dreka þessum, at þér munuð[5]) hljóta at vinna til

---

1) *In S stand ursprünglich* þegar *also doppelt, dann gebessert in* festar. 2) *Lücke in S, ergänzt nach T,* eignaðiz Hrólfr konungr þat ríki, sem ... *F,* Hrólfr konungr tekr þat ríki til forráða, er ... *AaC.* 3) *Cap.-Überschrift nur in S.* 4) *Verwischt und ganz unsicher S, fehlt in allen übr., auch in s.* 5) *Abgeschnitten vom obern Rande S, das vorhergehende* (*von* — ta sakir) *ist nur aus den untern Buchstabentheilen zu erschliessen,*

nöckut, áðr þér náið drekanum; þickja mun þeim svá góðr, er nú stýrir. Konungr mælti: veiztu, hverr sá maðr er? Ásmundr segir: hann heitir Grímarr ok er Grímolfsson. Hann er inn mesti víkingr ok bardagamaðr; hann liggr á skipum bæði vetr ok sumar; hann er mikill ok illiligr ásýndar, en verri reyndar; hann bíta eigi járn ok engan þeirra tólf, er með hónum eru; þeir eta allir hrátt, en drecka blóð, má þá heldr tröll kalla en menn. Eitt sumar fundumz vér við Suðreyjar, hafða ek tíu skip, ok öll velskipuð, en þeir höfðu fimm. Vér börðumz einn dag ok skipti skjótt um, fell þar alt lið mitt, en ek hljóp á kaf ok kómumz ek svá undan. Hefi ek eigi farit verri för en þá. Konungr mælti: þickir yðr nöckur efni á, at berjaz við þá með þat lið, sem vér höfum? Ásmundr bað konung fyrirsjá; munum vér treysta á yðra hamingju, ef duga skal. Ketill[1] eggjaði mjök atgöngu, kvað þá mundu gott, at reyna sik ok afla fjár ok frægðar. Þá mælti Hrólfr konungr: með því, at þeir eru illir ok ágjarnir, en hafa þann grip, at ek vilda gjarna eiga, þá munum vér viðbúaz ok bera grjót á skip vár. Var nú gert, sem konungr mælti fyrir, búaz þeir nú um, sem þeim þótti vænligast. Þá bað konungr þá ganga upp á eyna ok höggva kýlfur stórar ok eptir þat herklæðaz þeir ok leggja at þeim ok róa hljóðliga.

## 17. Bardagi Hrólfs konungs við Grímar.[2]

Svá er sagt, at skip Grímars lágu öll jafnfram; lágu langskipin nær eyjunni en drekinn ýztr ok var hlið mikit milli skipanna. [Konungr bað þá róa fram milli skipanna[3] ok eyjarinnar [ok leggja[4] at langskipunum ok vita, at þeir gæti unnit þau, [áðr þeir kæmiz við á drekanum[5]; þótti þá unnit, ef þeir ætti eigi langskipin til annarrar handar, þá er þeir legði at

*die obern sind gleichfalls abgeschnitten; eingesetzt nach T;* þann einn hygg ek hónum stýra, at þér þurfið nöckut tilvinna, áðr ... *FG,* en þann einn ætla ek stýra drekanum, at þér munuð fult verða til at vinna, áðr ... *AaC. Meine Lesung von* — ta sakir *bis* stýra *stimmt zu AaCT* (*F hier ungenau*), *für* slíkt *hat T* þetta, *doch* slíkt *AaC.* 1) Konungr *(ausgeschrieben) S, die übr.* Ketill *oder* K. *(Abkürzung).* 2) *Cap.-Überschrift nur in S.* 3) *Fehlt ABST* (*auf das erste* milli skipanna *folgt also sofort* ok eyjarinnar), *eingesetzt nach aC, sehr entstellt F.* 4) *So S,* ok leggja fyrst *AaC,* Hrólfr konungr bað leggja *T.* 5) *So ST,* áðr en þeir komaz at drekanum *F,* áðr þeir kæmi við drekanum *AaC.*

drekanum, bað[1]) þá vera sem ákafasta í fyrstunni, meðan þeir væri sízt viðbúnir ok vita, at sem skjótast skipti um með þeim, bað þá ecki æpa ok faraz hljóðligast. Þeir gera nú, sem konungr mælti. Var þá á þoka ok myrkvi mikill, finna þeir eigi fyrr á langskipunum en tjöldin eru tekin af þeim ok því 5 næst skorti eigi grjót ok vápnagang. Urðu þeir við it hraustligasta ok tóku í móti vel. Lá hverr með sínum herklæðum, en þó fengu þeir mikinn mannskaða, áðr en þeir kómuz á fætr. Tókz þá bardagi ok ei langr, áðr en þeir konungr réðu til uppgöngu, var þá mannfall mikit. Er svá sagt, at Grímarr 10 yrði eigi fyrr varr við, en hroðin[2]) skip hans þrjú ok drepit hvert mannzbarn; bað þá menn sína uppspretta ok hefna sínna manna, var þá brak mikit á drekanum, sviptu tjöldum ok bjögguz um skjótt; þar er ákall ok óp, er hverr eggjaði annann. Þá mælti Hrólfr konungr til Ketils, bróður síns, bað hann 15 leggja at því langskipi, er eptir var[3]); höfðu þeir konungr fengit lítit[4]) manntjón. Er svá sagt, at þeir Hrólfr konungr ok Ásmundr lögðu at drekanum á sitt borð hvárr. Maðr kallaði[5]) af drekanum ok spurði, hverir þar legði at svá djarfliga. Konungr sagði til sín ok svá Ásmundr. Þá mælti Grímarr: 20 þú ert ágætr maðr, Hrólfr konungr! ok manna frægstr. Er þat at vánum, at slíkir menn ætli sér mikit, sem þú ert. Er oss ok [kunnleiki á þér, Ásmundr! at þú ert vaskr maðr ok góðs höfðingja son. Þætti mér, sem þú mundir muna[6]) skilnað ockarn sínn tíma. Ásmundr segir ok kvað hann þat skyldu 25 eiga til at segja, áðr en þeir skildi, [at hann hefði munat þá sína ferð[7]), er hann fór fyrir þeim. Grímarr kvez ætla, at hans ferð skyldi nú verða verri ok hæðiligri. Grímarr mælti þá til Hrólfs konungs: með því, Hrólfr! at þú ert ágætr maðr ok mér þickir ilt at týna lífi jafnhraustz mannz, þá vil 30

1) konungr bað *AaCF*. 2) hroðit *S*, hroðin vóru *T*. 3) *Mit* Þá mælti Hrólfr konungr til Ketils, bróður síns; nú skaltu leggja at því langskipi, er eptir er, en vit Ásmundr *schliesst das Fragment a vgl. FAS. III 108*. 4) *So ACF*, mikit *ST*. 5) *So FT*, tallaði *S*, talaði *s*. 6) *Bis* -na skilnað *abgeschnitten vom obern Rande S*, *eingesetzt nach T*, er oss kunnugr líka Ásmundr, at hann er góðr höfðingjason ok þætti mér ván, at hónum væri minniligr skilnaðr ockarr síðast *F*, *stark abweichend AC*. 7) at sér væri ecki or minni liðin sú skömm, er ek feck *F*, at mér er þat eigi or minni liðit *AC*.

ek bjóða þér at ganga upp á eyna með vápnum ok klæðum ok öllu liði þínu, en vér takim skip [ok fé; nenni ek eigi öðru, þar sem þér hafið drepit lið várt ok leynz at[1]), en hefna yðr nöckuru. Geri ek þó engum jafngóðan kost, nýtr þú at því
5 frækuleiks þíns ok vinsældar ok þó nöckut drengskapar várs. Konungr mælti: þar sem vér höfum [þat ráðs[2]) tekit, at halda til bardaga við yðr ok gert þegar nöckut afhroð, þá nennum vér eigi at gefaz upp at óreyndu. Grímarr kvað þá þat kjósa, er þeim gegndi verr, kvað þá þat hafa skyldu ok eptir þetta
10 tekz þar bardagi ákafr ok harðr. Vóru þeir Grímarr bæði sterkir ok harðfengir ok svá ákafir, at konungsmenn máttu ecki annat en hlífa sér. Var þeim óhægt til atsóknar, er svá var hátt á drekann, sem kastali væri, en menn stórir ok sterkir ok kænir við orrustu ok áttu at höggva niðr fyrir sik, en
15 engan þeirra beit járn, sem Ásmundr hafði sagt. Fellu þá menn þeirra á langskipunum bæði móðir ok sárir.

Svá er sagt frá Katli Gautrekssyni, at hann lagði at langskipinu því, er eptir var. Var þat mikit skip ok velskipat, hét sá Forni, er stýrði skipinu ok var inn hraustasti
20 maðr. Lagði þar hvárrtveggi djarfliga til mótz við annann ok varð þeirra fundr harðr. Sýndi Ketill hraustliga atsókn ok réð til uppgöngu með sínu liði. Var þá orrusta in harðasta, skiptuz þeir Forni höggum við ok fell Forni fyrir Katli. Skipti síðan skjótt um ok drápu þar hvert mannzbarn, feck Ketill
25 þar góðan orðztír af sínum mönnum.

## 18. **Bardagi, sigr.**[3])

Eptir þat lögðu þeir at drekanum ok funduz þeir bræðr. Spurði Ketill, hversu gengi. Konungr lét litt yfir, sagði, at ei mundi svá búit hlýða, kvað þetta vęra fjándr mikla við at
30 eiga, bað þá Ketil leggja at eyjunni ok flytja út stórtré at drekanum; skorti þar ei mörk mikla. Ketill gerði svá, var hann at öllu inn harðfengasti ok inn skjótasti, ok er þeir kómu aptr, lét konungr bera upp viðuna á drekann, var þat stór-

1) *So ST,* ok penning, þar sem þér hafið drepit lið mitt ok leynz at; vil ek því hefna á yðr at nöckuru *FG,* en penninga þá, sem þér hafið, vil ek taka fyrir menn þá, sem þér hafið fyrir mér drepit, ok er þat þó alt oflítit *AC.* 2) *So ST,* þat ráð *F, ohne genaue Entspr. AC.* 3) *Cap.-Überschrift nur S.*

þungi mikill ok hallaðiz drekinn á annat borðit bæði við tréin ok svá mannþungann. Stóðu þeir þá allir á annat borðit, var þá bardagi ákafr ok máttu konungsmenn þá vel vápnum viðkoma. Fellu þá menn af drekanum bæði fyrir grjóti ok vápnagangi, hallaðiz þá bardaginn á Grímar ok hans menn, ok er konungr sá þat, hljóp hann upp á drekann með mikla klumbu ok barði á báðar hendr. Þeir Ásmundr ok Ketill seinkuðu ecki at fylgja hónum ok gengu upp með sama hætti ok eptir þat hverr at öðrum konungsmanna. Tekz þá bardagi af nýju ok fell hverr um annann ok genguz at með snarpleik. Hafði konungr þá mannfleira en stóðu jafnhátt, fell þá lið Grímars, svá at hann stóð einn upp með kappa sína tólf. Var þá gengit at þeim ok barðir með klumbunum, fellu þá margir. Ok er Grímarr sá, at þeir mundu sigraz, stöckr hann fyrir borð ok þegar í kaf. Ásmundr var nær staddr ok hleypr þegar eptir hónum ok leggz inn at eynni, ok er Ásmundr kemr at landi, er Grímarr á land kominn, ok er hann sér Ásmund, þrífr hann upp stein ok sendir hónum. Ásmundr skýtr sér í kaf, ok er hann kom upp, ætlaði Grímarr at senda hónum annann, ok í [því varð hann sleginn með kýlfu, svá at þegar fell hann við. Var þar kominn Hrólfr konungr ok lét hann þá skamt[1]) höggva á milli; lét Grímarr þar líf sitt. Lögðuz þeir þá út til skipsins, hafði Ketill unnit þar alt til handa ok tóku þeir til ok ruddu drekann ok hreinsuðu. Fóru eptir þat til eyjarinnar ok bundu sár manna sínna; voru þeir bæði sárir ok móðir, en fjöldi fallinn, vóru þeir þar nöckurar nættr. Konungr var litt sárr, en þeir Ásmundr ok Ketill mjök báðir. Eptir þat bjögguz þeir í brutt[2]), tóku þeir drekann Grímarsnaut ok gátu hann skipat lítilliga, en létu eptir öll önnur. Kómu nú við Danmörk, þar sem konungs atsetan var. Var þar búin in ágætasta veizla, geck Ingjaldr í móti Hrólfi konungi, fóstbróður sínum, með allri vegsemd ok kurteisi. Sátu þeir þar um hríð glaðir ok kátir, þóttu þeir hafa vaxit mjök af þessi

1) *Bis* -amt höggva *abgeschnitten vom obern Rande S, eingesetzt nach T,* ok í því var hann lostinn kýlfuhöggvi, svá at hann fell. Var þá Hrólfr konungr kominn þar ok lét skamt höggva á milli *F,* ok í því var hann sleginn með kýlfu', svá at þegar fell hann. Þar var kominn Hrólfr konungr ok lét skamt höggva í millum *AC.* 2) í brutt báðir *S, wobei aber* báðir *unterpunctiert ist.*

ferð. Tekr Ingjaldr nú ríki ok konungdóm eptir feðr sínn, [setr nú ríki sitt ok[1]) semr með ráði [konungs, gaf hann Hrólfi konungi inar beztu gjafir[2]) ok skiljaz með inni mestu blíðu. Siglir[3]) konungr til Svíþjóðar ok Ásmundr með hónum, en
5 Ketill fór til Gautlandz ok setjaz nú um kyrt. Sitr Hrólfr konungr löngum með Eiriki konungi, mági sínum.

## 19. **Búnaðr.**[4])

Hrólfr konungr lagði mikinn kost á, at búa drekann Grímarsnaut. Lét allan steina fyrir ofan sjó ýmsum litum, með
10 blám ok rauðum, gúlum ok grænum ok brúnum ok alla vega litum. Gulli lætr hann búa höfuðin á drekanum ok svá veðrvitana ok víða renna gulli í skurðina, þar sem bæta þótti ok prýða. Var hann hverju skipi skrautligri, þótti hann svá bera af hverju skipi, sem Hrólfr konungr Gautreksson af öllum
15 konungum, þeim er þá vóru. Gerðiz hann ok harðla víðfrægr, sóttu margir ríkir menn ok ríkra manna synir á hans fund ok gerðuz hans hirðmenn ok veittu hónum góða fylgð. Höfum vér þat heyrt, at í þann tíma hafi eigi verit eitt skip skipat fleirum köppum en með Hrólfi konungi Gautrekssyni á drek-
20 anum Grímarsnaut, þóat vér kunnim fá at nefna eða frá at segja. Sitr Hrólfr konungr nú í Svíþjóð með mikilli gleði ok sóma þessi misseri in næstu eptir orrustu þeirra Grímars. Unnuz þau Þórbjörg stórliga mikit, fann konungr þat brátt, at hón var hverri konu vitrari ok meiri skörungr fyrir allra hluta
25 sakir. Ásmundr var með konungi vel haldinn ok reyndiz inn vaskasti maðr, virði konungr hann mest allra sínna manna. Hafði Hrólfr konungr þá þriðjung af Svíþjóð til forráða ok aftektar. Hann hafði jafnan á sumrum útgerðir fyrir landinu ok leitaði sér frægðar ok frama ok it næsta sumar eptir bar-
30 daga þeirra Grímars hafði Hrólfr konungr verit í hernaði ok kom heim síð um haustit ok hafði víða herjat um vestrlönd ok orðit gott til fjár.

---

1) setr með ríki sitt ok *(so) S, fehlt FT,* setr sína ríkisstjórnan eptir ráði ... *G,* sitr hann nú ok semr ríki sitt á þá lund, sem Hrólfr konungr gaf ráð til *AC.* 2) *So nach T,* konungs h. (*so Kürzung für* Hrólfi *oder für* hann) inar beztu gjafir *(also Auslassung) S, die übr. ungenau.* 3) sendir S. 4) *Cap.-Überschrift nur in S.*

## 20. Talaz þau við.[1])

Einn dag talaz þau við, Hrólfr konungr ok Þórbjörg dróttning. Spurði hón at um ferðir þeirra, en hann sagði. Hón spurði at, hvat hann vissi til um athöfn Ketils, bróður síns. Konungr kvaz ecki þá til hafa frétt ok spurði, hvat hón kynni 5 þar af at segja. Hón segir: konungr heitir Hálfdan, er ræðr fyrir austr í Garðaríki; hann er vitr konungr ok vinsæll. Hann á dóttur unga ok fríða, er Álof heitir. Þessi konungr hefir mart kappa með sér; þar eru þeir tólf berserkir, er engan bíta járn ok eru allra manna mestir ok sterkastir ok verstir við at 10 eiga. Sá maðr er með konungi, er Þórir heitir, hefir hann þar lengi verit landvarnarmaðr ok er inn bezti drengr, vitr maðr ok vinsæll. Þangat hefir Ketill farit í sumar þess erindis, at biðja dóttur Hálfdans konungs sér til handa. Hefir hann þangat haldit fjórum skipum ok gengit við inn tólfta mann 15 fyrir Hálfdan konung ok bar upp sitt erindi vel ok sköruliga, en feck skjót svör ok hæðilig. Hlaupa berserkir upp með vápnum ok miklum gný ok ópi ok ráku þá út or höllinni ok eltu þá [til skipa grenjandi ok æpandi ok eimandi með fáheyrðum látum. Vóru þeir bæði særðir ok barðir ok þóttuz[2]) fótum 20 eiga fjör at launa, er þeir kómuz undan. Höfum vér slíkt þar afspurt, þicki mér líkligt, at Ketill uni eigi vel við sína ferð, þar sem hann undi litt við yðra ferð, ok varð sjá þó miklu hæðiligri. Mun hann brátt hér homa ok biðja yðr þessarar ferðar, at reka sínnar svívirðingar. Konungr segir eigi hægt 25 at koma ráðum við slíka menn við ákafa hans ok framgirni. Er nú vel, at hann gjaldi einræðis sjálfs síns, þar sem hann vildi ecki fara með várri forsjá. Hón bað hann ei slíkt mæla, kvað slíkt nauðsynjaferð vera, at veita bróður sínum sitt fullting. Munuð þér ok mestri gæfu stýra ok mestum frama 30 til leiðar koma. Skildu þau at svá mæltu.

---

1) *Cap.-Überschrift nur in S.* 2) *Abgeschnitten bis* -uz fótum *vom obern Rande S, eingesetzt nach T,* ok eltu þá til skipa grenjandi ok eggjandi með fáheyrðum látum ok vóru bæði barðir ok meiddir ok þótti . . . *F,* ok eltu þá til skipa með grenjun ok fáheyrðum látum; þeir vóru bæði barðir ok særðir ok þóttuz . . . *AC.*

## 21. Frá ferð Hrólfs konungs.[1])

Um vetrinn eptir jól kom Ketill af Gautlandi til Svíþjóðar á fund Hrólfs konungs ok sagði hónum þessa svaðilferð eptir því, sem konungr hafði áðr heyrt. Bað konung veita sér lið
5 ok styrk til þessarrar ferðar, var hann í grimmum hug ok inn reiðasti. Konungr kvað hónum slíkrar ferðar ván fyrir ras sitt ok óforsjá. Sýniz mér eigi líkligt til hefnda við slíka menn, sem um var at eiga, mun bæði viðþurfa fjölmenni ok harðfengi. Skaltu nú fara heim í ríki þitt ok afla skipa ok
10 manna ok send orð Ingjaldi konungi á Danmörk, [at hann fari ok slíkt it sama[2]) ok komið hér báðir at sumri; sjám þá, hvat oss þickir tiltækiligast. Ok eptir þat ferr Ketill heim í ríki sitt; hafa nú allir ætlan á ok tilbúnað um þessa ferð. Líðr nú vetrinn af hendi ok at sumri koma þeir Ingjaldr við
15 Svíþjóð með XL skipa á fund Hrólfs konungs. Vóru þau búin harðla vel at mönnum ok vápnum. Hrólfr konungr hafði búa látit XXX skipa ok dreka sínn umfram, vóru þessi skip þá allbúin með miklum herskap ok velbúnu liði; [biðu svá byrjar. Hrólfr konungr spurði dróttningu[3]), hvat henni segði
20 hugr um, hversu þessi ferð mundi takaz. Hón kvez vænta, at vel mundi takaz, en kvez þó ætla, at þeir mundi koma eitthvert sinn í krappan stað ok þeir mundi reyndir verða. Ok einn morgun snemma kom á byrr, taka þeir þegar ok settu á segl svá hverr, sem búinn varð; var þó veðr lítit í
25 fyrstu. Konungr varð síðast búinn, geck drekinn litit, þvíat hann þyrfti mikinn byr. Ok er þeir höfðu siglt um stund, þá tók at hvessa, geck drekinn þá skjótt eptir skipunum, gerði þá veðrit mikit. Bað konungr þá tengja saman skipin ok vita, at þeir fengi þannig saman haldiz ok er þeir ætluðu til
30 at greiða, laust á rosa svá miklum, at þegar skildi með skipunum. Urðu þeir þá at hlaða seglunum ok eptir þat geck veðrit til útnyrðings ok var á steinóði, svá at ei fengu lengr í rétti legit ok sigldu þá við eitt rif ok var hvertvetna yfirborit, en við storm útnyrðings þoldi eigi reiði þeirra, höfuð-
35 bendur biluðu, aktaumar slitnuðu ok geck inn sjórr á þá, svá

---

1) *Überschrift nur in S.* 2) at gera slíkt it sama *F,* at hann geri slíkt it sama *AC.* 3) *So nach ACF,* þá byrjaði Hrólfr konungr ferð sína, ok áðr en hann færi, spurði hann d. *ST.*

at fáir væntu sér lífs, þeir sem þar vóru. Ok er þessi stormr var sem ákafastr, rak drekann Grímarsnaut at ey einni ok með því, at þar var höfn góð, en skip örugt, kómu þeir með heilu ok höldnu á land. Var þat síð um kveld, fell þá veðrit ok gerði harðla blitt. [Sagðiz konungr vilja ganga upp á eyna ok vita, ef hann sæi nöckut til nýlundu. Ásmundr fór með hónum ok tíu menn aðrir. en hann bað annat lið sitt bíða við skip ok bað þá bíða til nóns annann dag, ef hann gerði þeim vissu enga áðr. Eptir þat gengu þeir upp á eyna; var þat mikit land ok skógótt.[1]) Þeir fundu einn skála á eyjunni; var hann bæði mikill ok rammgerr ok ei þóttuz þeir sétt hafa jafnhátt hús; hurðir vóru aptr. Bað konungr þá upplétta[2]); þeir hljópu á hurðina ýmsir ok geck engum upp. Konungr geck þá at ok hratt upp með annarri hendi, gengu síðan inn ok lituðuz um ok fundu þar eld ok brugðu á skíði ok báru um skálann. Sá þeir, at ei skorti þar allzkonar varning; sæing var þar búin harðla vel ok stórliga mikil. Konungr lagðiz niðr í sængina ok sá hann, þótt annarr legðiz niðr til mótz við hann, at þó var sængin sýnu meiri. Þóttuz þeir vita, at þat mundi eigi smámenni vera, er þar átti forræði á. Þar var ein súla fyrir framan sængina upp undir ásinn ok á ofanverðri súlunni heck eitt sverð mikit ok svá hátt uppkomit, at Hrólfr konungr feck hvergi nær tekit neðan til. Þá mælti Hrólfr konungr: hvárt vilið þér hér vera í nótt ok bíða hér bónda, þess er hér á forráð, ok hætta til, hversu hann er heim at hitta, eða vilið þér fara til skips ok hætta ecki til fundar við hann? Þeir báðu hann fyrirsjá, en kváðuz ecki fúsir at bíða.

1) Sagðiz konungr vilja ganga upp á eyna; var þat mikit land ok skógótt . . . *ST, also Auslassung wegen des doppelten* upp á eyna; *das fehlende eingesetzt nach A, das jedoch* Hrólfr konungr léz vilja ganga á eyna ok vita . . . *hat; C wie A nur* til nóns aptans *für* til nóns annann dag; *in F heisst die Stelle:* Sagðiz konungr vilja ganga upp á eyna ok bað Ásmund ganga með sér ok tíu menn aðra, en bað hina bíða sín um nóttina ok daginn eptir til nóns ok sagði þá kvitta, þó þeir sigldi þá í burt. Eptir þat gengu þeir upp á eyna; var þat mikit land ok skógótt. Þar fundu þeir . . . 2) *Nach* upplétta *hat T:* var Ásmundr með konungi ok tólf aðrir; þeir hljópu . . .; *in S folgt auf* upplétta: var Ásmundr með konungi, *dann einige Worte undeutlich wegen Beschädigung des obern Randes, ich vermuthe:* ok XII menn aðrir; *die Zahl* XII *ist ziemlich sicher; von* þeir hljópu . . . *ist S wieder deutlich.*

Konungr segir: þat má vera, at þessum þicki hölzti fjölgist ok styggiz hann við, er vér erum svá margir. Skal nú skipta liði váru; skulu sex[1]) menn fara til skips, þeir sem hraustastir eru útan vit Ásmundr; munu þér enn vel snemma aptrkoma ok kunna at segja vára fyrirætlan, ok ef vér komum eigi til skips fyrir dagmál, þá haldið brutt sem skjótast; mun vár þá ecki at bíða. Mun oss ok ecki margmenni tjóa við þenna mann; mun hann jafnt fyrirkoma mörgum sem fám, ef þess verðr afauðit. Er mönnum þá ok ljósara, ef þér komið í braut ok segið þat, er þér sjáð, hvat af Hrólfi konungi Gautrekssyni er orðit ok hans félögum. Þicki mér vera mega, at þessi skálabúi hafi nöckuru umráðit veðr þetta it mikla, er áhljóp, ok vili hann ecki annat, en fund várn beri saman; skal nú ok bíða náttlangt. Eptir þat fóru þeir braut, sem konungr kvaddi til, ok koma til liðs síns ok sögðu þat, er þeir vissu til Hrólfs, konungs þeirra. Vóru þeir mjök hræddir, hversu hónum mundi atfara.

## 22. Frá risa ok Hrólfi konungi.[2])

Nú er at segja frá Hrólfi konungi, at þeir sitja við eld um kveldit[3]) ok er áleið, heyra þeir dunur miklar út ok því næst gengr þar inn maðr. Undruðu þeir eigi, þóat skálinn væri mjök uppfærðr, þvíat ofarliga bar hann sitt höfuð. Var þat inn hræðiligasti risi; ecki var hann svá illiligr, at ei mætti um þat hræfa, þess er hann var þó mjök stórskorinn í andliti. Vel var hann ok búinn at klæðum; hann hafði einn hvítabjörn á baki ok boga í hendi harðla rammligan. Ákafliga var hann móðr, ok þat ætluðu þeir, at hann mundi lengra hafa atgengit en þar um eyna. Hann gengr at eldinum öðrum megin ok kastar niðr birninum. Ecki kveðr hann konunginn ok hvárigir tala þar við aðra. Sundrar hann björninn skjótt ok fimliga; síðan festir hann ketil upp ok sýðr. Eptir þat býr hann borð ok berr á vist; alt þótti þeim þat ok vel skipat.

---

1) *So ST, unleserlich F,* fjórir *AC, nach* hraustastir eru *folgt in F:* en fjórir ok vit Ásmundr munum eptir vera; munuð þér . .; *in AC heisst es:* skulu fjórir menn fara til skips, en vit Ásmundr ok aðrir fjórir skulu eptir vera . . .  2) *Cap.-Überschrift nur in S.*  3) *Mit* at þeir sátu við eldinn um kveldit *schliesst Blatt 13 in F, das nächste Blatt fehlt, dafür wird hier die Abschrift f verwerthet.*

Eptir þat tekr hann til matar ok etr ok dreckr [heldr frekliga [1]), ok er hann er mettr, berr hann braut alt, þat sem hann leifði, ok býr síðan borðit í annat sinn vel ok kurteisliga, setr fram munnlaug með handklæði. Eptir þat tekr hann til orða: þat er ráð, Hrólfr konungr! at ganga til matar; em ek ecki svá aumlátr, at ek tíma eigi, at gefa nöckurum mönnum mat, þóat mik sæki heim um málsakir, þóat ótignari sé en þér eruð. Eruð þér ágætari menn en flestir aðrir fyrir mörg snildarverk, er þér hafið unnit umfram aðra konunga. Konungr segir: þetta er vel boðit ok mikilmannliga, en bæði gerðum vér áðr at eta ok drecka en vér gengum frá skipum; þurfum vér ei, at ágirnaz mat þinn né dryck. Hann kvez ætla ok, at Hrólfr konungr mundi annars verðari frá hónum en góðs beinleika, þar sem þú drapt Grímar, bróður minn, inn vaskasta mann, ok tókt eptir hann marga gripi. Vórum vit báðir Grímolfs-synir, [en ek heiti Grímnir. Skal nú ecki leyna því, at ek olla því inu mikla veðri, er þér tókuð. Var þat ok [2]) mest til þín gert ok þeirra, er á drekanum vóru. Létti þegar veðrinu, er þér vóruð fráskila með drekann, tóku þeir þegar inn hægsta byr ok eru vel komnir með heilu ok höldnu. En þú Hrólfr konungr! ert kominn svá, sem skyldi ok ek vildi, ok þóttu værir hér kominn með öllu liði þínu, en ek einn fyrir, þá skyldir þú aldri með heilu á braut komaz. Lét ek ok því eigi brjóta drekann, at hann var bezt skip í yðvarri ferð; ætla ek mér hann af eignum Grímars, bróður míns, með því, at ek skal hans greypiliga hefna. Risinn skýtr í eld járngaddi miklum ok var klofinn í endann annann, [sem tveir væri mjök hvassir. [3]) Var þat geigvænligt færi ok er þat var glóanda,

1) alldjarfliga *f*, heldr djarfliga *AC*. 2) *Abgeschnitten vom obern Rande S, eingesetzt nach T*, ok heiti ek Grímnir. Skal nú ecki leyna þik, at olla veðri því inu mikla, er þér fenguð. Var þat ok mest til þín gert . . . *f; unzuverlässig und lückenhaft A; der Stelle von* Hann kvez ætla . . . *entspricht in C:* ek heiti Grímnir ok em Grímolfsson ok bróðir Grímars, þess er þú drapt. Þú tókt þar marga gripi, þá er ek þickjumz eiga. Nú er þat satt, at þú ert engis góðs frá mér verðr ok ecki skaltu gott af mér hafa, en því bauð ek þér til matar, at ek vissa, at þú mundir eigi frama til hafa, ok þóttu værir hér með öllu liði þínu, skyldir þú aldri burt-komaz. Þik skal ek ei því leyna, at veðr þat it mikla gerða ek at þér ok þeim, er á drekanum vóru, ok létti þegar . . . . 3) sem tveir angar væri *f*, sem þat væri tveir fleinar *AC*.

svá at alla vega sindraði af, þá brá hann því upp ok rak í gegnum tvá fylgðarmenn Hrólfs konungs, þá er sátu út frá Ásmundi. Hann brá þeim á lopt ok kastaði innar um eldinn; fengu þeir skjótan bana. Með þeim hætti lét hann fara aðra
5 tvá, þá er útar sátu frá konungi ok sýnduz þeim nær sex oddarnir á þessu færi, er hann skók þat. Þá mælti risinn: ecki skal þér bana, Hrólfr konungr! með þessum hætti, sem lítilsháttar mönnum; skuluð þit fóstbræðr lifa í nótt, skal ek hafa gaman af yckr á morgin ok kvelja mjök til bana. Hrólfr
10 konungr kvað frest illz bezt ok kvez gjarna sem lengst lifa vilja, en eigi annann dauðdaga mundu síðr kjósa en þenna. Eptir þat býz risinn til svefns, geck áðr til ok skeldi hurðinni í klofa; hann var farmóðr ok sofnaði skjótt. Þá mælti Hrólfr konungr: hversu þickiz þú kominn, fóstbróðir? Ásmundr segir:
15 heldr illa, segir hann, þicki mér tröll þetta ilt við at eiga ok eigi hægt til orræða. Konungr segir: aldri mun sá óvinr fyrirkoma ockr, ok mun nöckut annat fyrirliggja. Konungr tók þá skíð eitt ok skeldi á þilit hjá sér; risinn vaknaði ok bað þá liggja kyrra, ella kvez hann mundu slá þá í hel. Eptir þat
20 sofnar risinn. Hrólfr konungr skellir enn skíðunni i annat sinn, risinn sneriz á aðra hlið ok talaði þá ecki um ok sofnaði fast. Konungr skeldi it þriðja sinn miklu skjallast; vaknaði risinn þá ecki við.

## 23. **Dráp risa.** [1])

25 Hrólfr konungr mælti: nú skal fara at með ráði. Vilda ek fyrst geta nátt sverðinu, þætti mér líkligt, at þat mundi bíta risann. Skaltu nú standa á öxlum mér við súluna ok vita, at þú fáir [2]) felt ofan sverðit, þvíat þú munt eigi stýrt geta með því, at langt er upp komit. Mun ek þá freista, at
30 ek geta nátt sverðinu; væri ockr þá mikit undir, at eigi yrði hark af, svá at risinn vaknaði. Þeir gera nú, sem konungr mælti fyrir. Ferr þat svá, at Ásmundr getr ofantekit sverðit, en getr eigi haldit ok fellr ofan. Konungr tekr við sverðinu annarri hendi í döggskóinn ok getr haldit, svá ecki hark varð
35 af. Þá mælti konungr: nú vænkaz ockart mál mjök; skal nú með ráði atfara. Skaltu reka í eldinn járnteina þessa ok gera

---

1) *Cap.-Überschrift nur in S.* 2) *Fehlt S.*

glóandi; vilda ek, at þú leitaðir at færa járnteina þessa í augu risans í því er ek legg sverðinu á hónum, ok ef svá berr til, forðum ockr sem skjótast innar um sængina. Hrólfr konungr Gautreksson bregðr nú sverðinu ok sýniz, sem var, ágætr gripr. Konungr hafði kefli eitt í hendi, gengr nú at sænginni djarfliga, [flettir upp[1]) klæðum ok sýndiz hann harðla fjándliga. Konungr leggr sverðinu á hónum undir höndina svá fast, at þegar geck í gegnum hann ok jafnskjótt færði Ásmundr járnteinana glóandi í augu hónum ok eptir þat skunduðu þeir í braut. Konungr kastaði[2]) þá keflinu útar til dyra ok kom í skíðahlaðann ok skall mjök við. Risinn hljóp upp hart ok útar til dyranna ok fálmaði höndunum, hugði, at þeir mundi þangat hlaupit hafa ok ætlaði at kreista þá með engri vægð. En með greypiligum sárum ok umfangi miklu fellr hann út á hurðina, svá at hón brotnaði [í smán mola.[3]) Þeir gengu þá at ok börðu risann með [stórum trjám þar til hann dó, ok var hónum heldr mikit til fjörs. Eptir þat færðu þeir hann út ok urðu[4]) at leysa hann í limum í sundr ok færðu hann svá út. Var þá áliðit mjök ok bjögguz þeir þá í braut, ok er þeir vóru skamt komnir, sá þeir lið sitt í móti sér fara með miklu vápnabraki. Urðu þeir fegnir stórliga, er þeir sá konung sínn heilan. Höfðu þeir ætlat til fundar við risann ok hefna herra síns, [ef þess þyrfti við[5]), ok þótti eigi betra at lifa en deyja [eptir þá.[6]) Síðan báru þeir mikinn fjárhlut or skálanum ok marga ágæta gripi. Konungr hafði sverðit Risanaut; var þat svá mikit, at þat var engum vápnhæft útan helzt Hrólfi konungi.

---

1) flettir af hónum *ACf.* 2) *So alle, nur in S glaube ich* skalltaði *lesen zu müssen, wobei aber* ll *wie* st *aussieht, auch s hat* kastaði. 3) i smá mola *ACf.* 4) *Bis* -ðu at leysa *abgeschnitten vom obern Rande in S, eingesetzt nach T;* með stórum trjám þar til, at hann var dauðr út af; varð hónum mikit um dauðann. Eptir þat fóru þeir út or skálanum, urðu þeir at leysa hann or hálsliðunum *f,* með stórtrjám þar til, er hann var dauðr ok var hónum þó heldr mikit til fjörs. Eptir þat færðu þeir hann út or skálanum ok urðu þeir at lima hann í sundr . . . *AC.* 5) *Mit den Worten* ef þess þyrfti við *beginnt Fragment H; mit* en deyja eptir hann *beginnt Fragment E.* 6) *So ST,* eptir hann *E,* eptir konung sínn *H,* eptir herra sínn *f,* ok þótti þeim eigi betra at lifa eptir konung sínn *AC.*

## 24. Bónorð Ketils.[1])

Eptir þetta þrekvirki heldu þeir [í braut[2]) ok fengu þá inn bezta byr ok inn hægsta. Kómu víð Garðaríki nær konungs atsetunni; var þat [snemma dags.[3]) Sá þeir þar skipaflota mikinn ok kendu, [at þat vóru þeirra skip[4]); urðu þar hvárir öðrum stórliga fegnir. Vóru þeir Ketill þá mjök nýkomnir. Spurðu þeir þá at um ferðir Hrólfs konungs ok þótti tekiz hafa bæði gæfusamliga[5]) ok mikilmannliga; lofuðu allir hans ferð[6]) ok frama. Ketill spurði þá Hrólf konung, bróður sínn, hvárt þeir skyldi eigi þegar fara sem hermannligast ok veita konunginum atgöngu. Hrólfr konungr kvez eigi þat vilja; mun ek senda menn á konungs fund ok láta segja hónum mína kvámu ok várt erindi; vil ek, Ásmundr! at þú farir þessa ferð. Seg konungi svá, ef hann vill eigi unna Katli, bróður mínum, mægða við sik, [at hann mun ófriði mæta[7]) af oss. Viljum vér bíða hans viku ok safni hann liði at sér ok búiz við bardaga; ætlum vér þó [at vinna.[8]) Ferr Ásmundr með nöckura menn ok kemr til borgarinnar þann tíma, [er Hálfdan konungr sat yfir dryckjuborðum með hirð sínni; var þar gleði mikil.[9]) Ásmundr geck í höllina at dyrvörðum öviljöndum ok fyrir konunginn ok flutti sitt erindi vel ok sköruliga eptir því, sem Hrólfr konungr bauð.[10]) Þá segir Hálfdan konungr: [spurt höfum vér[11]), at Hrólfr konungr Gautreksson er ágætr maðr, en með því, at vér höfum áðr synjat Katli þessa ráðs, sýniz oss nú eigi[12]) at játa, þóat þér séð komnir með meira styrk [en fyrr.[13]) Munum vér þenna kost kjósa, at ráða til bardaga með því, at Hrólfr konungr hefir þar vel umtalat. Þá segir Þórir Járnskjöldr, öndugismaðr konungs: þat er [mitt

---

1) *Cap.-Überschrift so in S,* herja Ketill ok Hrólfr konungr í Garðaríki *Überschrift in H.* 2) í braut frá eyjunni *EH, bloss* af eyuni *f.* 3) snemma morgins *ACEf,* snemma einn morgin *H.* 4) at þat var Ketill *E,* at þat vóru skip Ketils *H,* at þá vóru komin skip konungs *f,* þar fyrir kendu þeir sína menn *AC.* 5) giptusamliga *fH.* 6) frægð *fH,* sigr *E.* 7) at hann mun eiga at mæta ófriði *ACfH.* 8) at vinna þessa mey Katli til handa *AC,* at ráða við konung þenna *EfH.* 9) *So ACST,* er konungr ok hirðin sat yfir borðum; var þar allmikil gleði *E,* er menn vóru undir dryckjuborðum ok konungr veitti hirð sínni glaðr ok kátr *fH.* 10) ætlaði *AH,* skipaði *Cf,* var viljugr *E.* 11) *Mit* spurt höfum vér *schliesst das Fragment T.* 12) eigi ráð *fH.* 13) en hann var *E,* en þá var Ketill *AC,* en þá Ketill kom *fH.*

ráð[1]), at þér stríðið eigi móti Hrólfi konungi ok [synið ei[2]) þessa ráðs. Er dóttir yður þó sæmiliga gipt, þóat Katli sé; er hann vaskr maðr ok inn hraustasti, en hafið þá vináttu Hrólfs konungs ok trausta höfuðbendu, [þvíat engan spyrjum vér[3]) ágætara konung á norðrlöndum en Hrólf Gautreksson 5 fyrir allra hluta sakir, ok víst segi ek yðr satt, at týnið þér virðing yðvarri, ef þér beriz í moti þessum konungi, er allra er frægastr ok með því, at þér vilið eigi hlýða váru ráði, þá skuluð þér enga ván eiga mínnar fylgðar ok mun ek eigi bera mínn skjöld í móti Hrólfi konungi. 10

## 25. **Tal á Hrólf konung.**[4])

Þá hljópu upp berserkirnir Hálfdanar konungs tólf saman. Hét sá Hrossþjófr, er fyrir þeim var. Hann mælti til Þóris: þetta er bæði mælt illmannliga ok ragmannliga, at veita eigi konungi sínum eptir megni ok þora eigi at berjaz í móti einum 15 lítilsháttar konungi ok óverðugr ertu at hafa sæmdir af várum konungi fyrir slík orð, ok þóat konungr várr hefði eigi fleiri menn en oss tólf, þá skyldi [Hrólfr þessi[5]) [eigi at síðr[6]) til heljar fara með öllu liði sínu ok aldri heðan mannzbarn komaz. Ætla ek mér at mægjaz við konung, en brytja Hrólf konung 20 úlfi ok erni, en þér sendimenn verðið skjótt bruttu, ef þér vilið ómeiddir vera ok óbarðir. Segið svá konungi yðrum, at fyrr skal hann ván eiga af oss snarprar orrustu, en Hálfdan konungr gipti [Katli, bróður hans[7]), dóttur sína, inn ágætasta kost. Er þat undarligt, at hann þorði optar þessa mála at vitja, þar 25 sem hann var bæði eltr ok barðr. Ásmundr segir: þat sé ek á þér, Hrossþjófr! at þú mælir feigum munni ok þér allir bræðr, þvíat eigi óttaz Hrólfr konungr yðr, þóat þér værið menn, þar sem nú eruð þér geitr, þær er ragastar megu verða. Munuð þér illa illz [bíða ok eggja konung yðvarn ins mesta óráðs. 30 Snýr Ásmundr nú út af höllinni, en berserkirnir æptu ok grenj-

1) mitt ráð, herra! *ACEfH.* 2) synið ei Katli *fH.* 3) *Mit* (þar hann er *f*) frægr maðr ok engan konung vitum vér ... *setzt F wieder ein nach der Lücke.* 4) *Cap.-Überschrift nur in S, kein Absatz in EF.* 5) *So ES,* konungr þessi *FH,* þá skyldi hann þessa eigi at síðr ... *AC.* 6) *Nur* at síðr *ohne* eigi *S, wie Text AC, fehlt EFH.* 7) Katli Kregð *EH,* þeim manni, er vér vitum mest vesaldarkregð *AC,* hónum Katli *F.*

uðu[1]) upp á þá. Konungr bað þá þegja ok gera enga gnauð at þeim, kvað þeim heyriligt, at flytja erindi herra síns ok höfðingja. Kom Ásmundr aptr á fund Hrólfs konungs ok segir hónum þessi tíðindi ok kvað þá við bardaga búaz eiga. Nú 5 er svá sagt, at Hálfdan konungr lét þegar liði safna; kom þar saman mikill herr á fám dögum. Bjögguz[2]) nú hvárirtveggju eptir efnum.

## 26. **Frá Hrólfi konungi.**[3])

Ok þann sama dag, er þeir skyldu berjaz, flutti Hálfdan 10 konungr her sínn í móti Hrólfi konungi. Berserkir vóru fremstir, fóru þeir ok nöckut fráskila herinum, þvíat þeir vildu einkenna sik frá öðrum mönnum fyrir sakir ofbeldis ok mikils máttar.[4]) Þá mælti Hrólfr konungr ok bað þá Ásmund [ok Ingjald[5]) ok Ketil fylkja í móti Hálfdani konungi, en hann 15 kvez vilja finna berserkina. [Snýr hann[6]) í móti þeim, ok er þeir funduz, spurði konungr, hverir þeir væri, er svá létu tiguliga. Hrossþjófr sagði til sín ok kvez vera Hrosskelsson. Konungr svarar: veit ek gerla ætt þína. Hrosskell, faðir þínn, var mikill vinr Gautreks konungs, feðr míns, ok skiptuz þeir 20 jafnan gjöfum við, en [þar sem[7]) þú bauz til at stríða í móti mér, [þá vil ek segja þér ætt þína í litilli frásögn ok gera þér kunnigt.[8]) Þat var einn tíma, sem opt kunni til at bera, at faðir þínn kom við Gautland ok faðir mínn tók hónum harðla vel ok bauð hónum til veizlu ok þat þá hann ok var hónum 25 veitt it kappsamligasta; sat hann þar mjök lengi. Faðir mínn átti þá gripi, er ágætir vóru; þat vóru stóðhross, hestr mikill ok vænligr, apalgrárr at lit með fjórum merum. Ok at skilnaði

---

1) *Bis* -njuðu *abgeschnitten vom obern Rande in S, ergänzt nach E, ebenso AC nur* eggið *und* út or höllinni; illa illz bíða ok eggja konung yðvarn jafnan ins verra ok með inu mesta óráði. Snýr Ásmundr nú á burt or höllinni, en berserkirnir æptu ok grenjuðu *H*, illa illz bíða af várum konungi. Ásmundr snýr or höllinni, en berserkirnir æptu ok grenjuðu eptir hónum ... *F*. 2) berjaz *FG*. 3) *Cap.-Überschrift nur S, kein Absatz EF*. 4) mikils metnaðar *FH*. 5) *Fehlt S, doch in allen übrigen, bloss* Ketil ok Ingjald (Ásmund *fehlt*) *H*. 6) Snýr hann einn *ACEFH*. 7) þó *FH*. 8) þá vil ek segja þér eina frásögn ok gera þér kunniga ætt þína *E*, vil ek segja þér eina gamansögn ok gera þér kunna ætt þína *H*, þá vil ek segja þér eina ágæta sögn ok gera þér kunnuga ætt þína *F*, þá vil ek segja þér eina lítla frásögn ok gera þér kunniga ætt þína *AC*.

gaf Gautrekr konungr föður þínum [marga dýrgripi, er ágætir vóru, ok þessi stóðhross gaf hann hónum.[1]) Föður þínum fannz mikit um hrossin ok þackaði Gautreki konungi mikilliga gjafarnar ok skildu með blíðu. Fór faðir þinn braut ok heim í sitt ríki. Faðir þinn lagði mikla ást[2]) við hrossin. Var þat ok eitt hrossit, at miklu var vænna en önnur; þat var silkibleikt at lit. Varðveitti hann þau virkuliga ok geck jafnan sjálfr til ok einn dag fannz hestrinn drepinn ok lagðr í gegnum. Þetta þótti mönnum undarligt ok illr skaði, en faðir þinn lagði ecki til ok ecki fundu menn, [at hónum væri þetta móti skapi[3]) ok ecki gaf hann þá minna gaum at hrossunum en áðr, heldr fylgði hann þeim meirr ok fastara ok ætluðu menn, at fyl mundi í merinni inni bleiku. Ok er stundir liðu fram, berr merrin ok varð öðruvís en menn ætluðu[4]); þat var barn, en eigi fyl. Faðir þinn lét barnit taka ok uppfæða; var þat mikit barn ok fritt. Hann lét kalla sveininn Hrossþjóf ok ertu nú sá inn sami hér ok er ei kynligt, at þú rembiz mikit, þar sem þú ert merarson; en faðir þinn drap sjálfr hestinn ok unni svá mikit merinni, móður þinni. En þat hefi ek ei spurt, hvárt hann hefir átt fleiri börn eða sonu við þessi meri, en þar sem þér eruð mjök líkir ok allir illir ok ólíkir öðrum mönnum, þá er þat líkast, at þér séð þannig allir getnir.[5]) En við sögn þessa, er Hrólfr konungr hafði sagt, hljópu þeir upp berserkirnir með grimd ok grenjan móti Hrólfi. Konungr brá sverðinu Risanaut ok geck í móti þeim it grimmligasta ok it frænkniligasta. Fundu berserkirnir, at sverðit kunni at bíta; lýkr svá, at Hrólfr konungr fellir þá alla, en varð [litt sárr.[6]) Sér hann þá, at Hálfdan konungr er kominn ok bardagi hefz með þeim. Hafði Hálfdan konungr fengit miklu meira lið.

## 27. Frá bardaga ok konungsdóttur.[7])

Hrólfr konungr snýr nú í bardagann móti Hálfdani konungi. Tókz þar orrosta, bæði hörð ok löng. Vóru þeir fóst-

1) *So AS,* þessi sömu hross ok marga aðra góðgripi *FH, nur* hrossin *CE.* 2) rækt *FH, mit* lagði mikla elsku á hrossin *schliesst das erste Blatt im Fragmente E, darauf defect.* 3) at hónum verr þætti *FH.* 4) hugðu *FH.* 5) tilkomnir *F,* atkomnir *H.* 6) þó litt sárr *FH,* drjúgum ecki sárr *A,* nær ecki sárr *C.* 7) *Cap.-Überschrift nur in S.*

bræðr inir áköfustu, ok þar sem Hrólfr konungr geck fram, veik[1]) undan lið[2]) Hálfdanar konungs ok fell þar fjöldi. Svá er sagt frá Þóri Járnskildi[3]), at hann vildi eigi berjaz móti Hrólfi konungi með því, at Hálfdan konungr virði einskis hans
5 tillögur.[4]) Konungsdóttir geck upp í ina hæstu turna[5]) at sjá til bardagans. Sá hón, at föður hennar geck litt bardaginn. Hón geck þá heim til hallarinnar ok fyrir Þóri, þar sem hann sat einnsamt í höllinni í öndvegi. Hann hafði fóstrat hana meyna ok unni stórliga mikit. Hón geck [fyrir hann ok mælti:
10 þat er ráð, fóstri minn! at standa upp ok veita föður mínum, þvíat ek sé, at hann þarf yðvars[6]) traustz. Þórir leit við henni ok svaraði engu ok sat sem áðr, en hón geck [í brott.[7]) Ok er stund leið, geck hón enn fyrir hann ok mælti: hví sætir, fóstri minn! er þú sitr svá fast ok hjálpar eigi feðr mínum,
15 þar sem hann er mjök þurfi ok er þetta óheyriligt mjök, svá at minniligr mun þickja þínn ódrengskapr, þeim er tilfrétta, þar sem þú ert hans öndugismaðr ok þegit af hónum margar góðar gjafar ok ráðit öllu með hónum, því sem þú vildir. Hann leit þá reiðuliga til hennar ok svaraði engu [ok sat sem áðr[8]),
20 en mærin geck á braut ok þótti henni þá fóstri sinn ófrýnligr[9]) mjök. Hón geck þá at sjáz um; sá hón, at Hálfdani konungi geck stórliga litt bardagi ok þóttiz hón [vita, at bratt mundi bresta flótta í liði þeirra; þickir nú litt at fara ok þickiz[10]) nú eigi vita, hvárt hón skal nú tilráða, at biðja fóstra sinn
25 liðveizlu. Verðr nú þat fyrir, at hón snýz at hónum djarfliga ok leggr upp hendr um háls hónum ok mælti: fóstri minn! ek minnumz nú bænar þeirrar, er þú hefir [heitit mér[11]); vil ek nú framheimta. Gangið nú til bardaga með feðr mínum ok veitið hónum eptir megni. Vænti ek enn, at þá gangi vel.

---

1) hröck *FH.* 2) fylking *ACH,* alt *F.* 3) Járnskjöld *S.* 4) tillög *AC,* orð hans *FH.* 5) turna borgarinnar *FH.* 6) *Abgeschnitten bis* -ars traustz *vom obern Rande S, ergänzt nach AC, ebenso H, jedoch* Mærin mælti *für* Hón geck fyrir hann ok mælti; Hón mælti: þat mun ráð, fóstri mínn! at standa upp ok veita föður mínum lið, því ek sé, at hann þarf yðvar traust *F.* 7) í brott ok sýndiz fóstri sínn ófrýnligr ok lítlu síðar . . . *FH.* 8) ok sat hann samt *H,* ok sat it sama *F.* 9) reiðugligr *FH.* 10) *Fehlt S* (ok þóttiz hón nú eigi vita, hvárt hón skal nú tilráða . . . *S*), *ergänzt nach FH; AC sind hier unverlässlich.* 11) heitit mér at veita, ef ek muni þik beiða *H,* heitit mér at veita, ef ek beiddi þik *F*; hefir þú ok heitit, at veita mér eina bæn, þá er ek vil biðja þik *AC.*

Járnskjöldr hratt meyjunni frá sér, svá at hón fell á hallargólfit. Var hann nú svá reiðugligr, at hón þorði ecki við hann at tala. Hann spratt upp ok heyrði hón, at hann blés við. Öll vápn hans hengu yfir hónum; tók hann þau ofan ok bjó sik bæði vel ok fimliga ok geck síðan til bardagans; skorti þar eigi snarpliga orrustu. Ok er stund leið, [sá Hrólfr konungr[1]) mikinn bug á fylking sinni, þar sem merki þeirra Ingjaldz konungs ok Ketils vóru fyrir. Sneri konungr þá þannig ok bað Ásmund berjaz undir merkjum þeirra meðan, ok er þeir funduz bræðr, spurði konungr, hversu atfæri. Ketill kvað þungt veita; er hér kominn fjándi nöckurr svá ákafr, at ecki vætta stendr við ok líkari trölli en manni. Konungr segir: maðr mun vera, þóat nöckuru sé vaskari en aðrir menn. Konungr [veðr þá fram með Risanaut ok hjó á báðar hendr[2]) bæði mart ok stórt, ok mætti engum [svá fræknum[3]), at ei tæki skjótt dauðann fyrir lífit. Ketill fylgði hónum fram harðla hraustliga ok [drap margan mann.[4]) Gengu þeir í gegnum fylkingar ok eptir þat hvarf Járnskjöldr á braut þaðan, en konungr rétti aptr fylkingina; hrucku þá menn Hálfdanar konungs. Ok er konungr [hafði þar framgengit um stund[5]), sá hann, at Ásmundr lét heldr undan. Sneri konungr þegar aptr ok fram undir merki sitt ok lét þegar frambera með miklum bardaga ok atsókn. Hálfdan konungr geck ok vel fram ok var inn kænasti við bardagann ok inn öruggasti til framgöngu. Þórir var ok þar kominn ok geck fram harðliga með stórum höggum ok kappsamligri vörn. Gerði hann [skjótt við alla[6]), þá [er hónum viku í móti[7]), ok þegar hann sér Hrólf konung, víkr Þórir skjótt í braut ok þangat, sem þeir Ketill vóru fyrir, [gengr þar at með kappi[8]) sem fyrr ok fellir hvern um annann, svá at ecki stendr við ok hallaz skjótt bardaginn á þá föstbræðr ok sér Ketill, at ei mun svá búit hlýða. Ferr til mótz

1) litaz Hrólfr konungr um ok sá hann . . . *FH*, litaðiz Hrólfr konungr um ok sá *AC*. 2) *So H*, veðr fram með sverðit Risanaut ok hjó á báðar hendr *F*, hjó þá fram Risanaut á báðar hendr *S*, hjó þá með Risanaut á báðar hendr *AC*. 3) svá sterkum né dramblátum *H*, svá sterkum ok eigi svá frægum né dramblátum *F*, svá fræknum, sterkum né dramblátum *A*, *nur* svá sterkum *C*. 4) hjó margan mann til bana *FH*. 5) hafði þetta unnit um stund *FH*, ok er þeir höfðu bariz um stund *AC*. 6) skjótt um við alla *FH*. 7) þá er hans biðu *FH*. 8) gengr nú hart fram *FH*.

við Hrólf konung, bróður sinn. Undarligt þicki mér, segir hann, er þú ræðr eigi af meinvætti þessa, er oss gerir svá mikinn skaða ok mundum vér fyrir löngu hafa sigr haft, ef þetta tröllmenni hefði eigi oss í móti gengit. Höfum vér ok
5 eigi fyrr fundit þat en nú, at þú [hafir ei verit hugaðr vel[1]), eða eigi jafnan þar framgengit, sem mest raun hefir at verit, útan nú í dag; brestr þér áræði við þenna spellvirkja, sýniz oss svá, sem hvárr forðiz annann. Nú með því, at þér vilið ei fyrirkoma þessum manni, ef svá skal kalla hann, þá fáið
10 mér í hendr sverðit Risanaut ok vita, hvárt mér bilar áræði við hann, ef ek kómumz í færi. Konungr svarar: mikit er um ákafa þinn ok vel mundi þér frambera, ef þú værir eptir því forsjáll, sem þú ert framgjarn, eða hyggz þú [munu vega með því sverði, er mér er valla vápnhæft? Ketill segir: gerla vissa
15 ek þat, at mér var ecki vápn í sverðinu, en eggja[2]) verðr[3]) þik með nöckuru. Konungr sneri þá í bardagann með Katli. Skorti eigi, at þar var ákafr bardagi ok mikil atsókn. Var Þórir Járnskjöldr þar fyrir ok hjó á báðar hendr [ok feldi margan mann til jarðar.[4]) Hrólfr konungr snarar þá móti
20 Þóri með nöckura menn ok varð þar hörð svipan. Þat sá konungr, at Þórir [vildi ei bera vápn[5]) á hann ok fór æ undan, en konungr sá þó, at ei mátti svá búit hlýða, því at Þórir gerði svá mikinn skaða at hans mönnum. Geck konungr þá svá nær hónum, at hann hjó þann mann, er stóð fyrir
25 Þóri. Ok í annat sinn seildiz konungr til mannz [yfir höfuð[6]) Þóri ok hjó þann; í því fell maðr fyrir fætr konungi ok rasaði [hann um þann[7]) nær til fallz ok í því stack konungr sverðinu við Þóri, er þá bar saman í rasaninni, en Þórir sneriz við ok

---

1) *Mit* hafir ei verit velhugaðr *beginnt das stark beschädigte 2. Blatt in E.* 2) *Abgeschnitten vom obern Rande S, eingesetzt nach H; die Stelle ist stark beschädigt in E, nur sichtbar:* at þú mundir vega, *dann Lücke, darauf* með því vápni, er ek getr varla? Ketill svarar: gerla veit ek, at mér var ecki vápn í sverðinu ... *u. s. w. wie H;* at þù munir vega með því sverði, sem mér er varla vápnbært? Ketill sagði: vissa ek, at ... *u. s. w. (wie H) F;* munu vega með því vápni, er ek fæ varla borit? Ketill svaraði: gerla veit ek, at ... *u. s. w. (wie H) AC.* 3) verð ek *alle mit Ausnahme von S.* 4) *Mit* ok feldi margan mann til jarðar *schliesst Blatt 15 in F, dann defect, im ff. ist wieder die Abschrift f verwerthet.* 5) *Mit* vildi eigi bera vá- *schliesst das Blatt in H, im ff. defect.* 6) *So ES,* yfir herðar *ACf.* 7) *So AC, nur* um hann *S, nur* hann *E,* mjök *F.*

brá at sér klæðunum ok nöckuru síðar sá konungr hann hvergi ok var hann þá horfinn or bardaganum. Konungr eggjaði þá lið sitt til framgöngu, en hann sjálfr víkr til mótz við Hálfðan konung ok varð þar it harðasta vápnaskipti, þar til er flótti brast í liði Hálfdanar konungs. Var þá auðsótt, er ágeck í 5 nöckurum stað; flýði þá hverr at öðrum, þeir sem lífit þágu. Hrólfr konungr gaf öllum grið, þeim sem báðu; tóku þat margir ráðs. Hálfdan konungr flýði til borgarinnar ok þat lið, sem undan komz, en fjöldi var fallit.[1]) Mart hafði ok fallit af liði Hrólfs konungs; [bað konungr þá fara til skipa, er sárir vóru.[2]) 10

## 28. **Lífgjöf Járnskjaldar.**[3])

Hrólfr konungr bað Ásmund fara með sér. Þeir gengu til skógar, ok er þeir höfðu gengit um stund, kómu þeir í rjóðr eitt ok undir einni eik fundu þeir mann. Sá var harðla mikill ok sat upp við eikina ok var fölr mjök; vápn hans 15 lágu hjá hónum. Konungr mælti: hverr er þessi maðr, er hér sitr svá einsliga? Hann svarar ok kvez Þórir heita. Konungr mælti: hefir þú bariz í móti oss í dag? Hann kvez hafa verit í bardaganum nöckura stund. Konungr mælti: þú ert ágætr maðr í framgöngu, eða viltu þiggja grið at oss? Þórir segir: 20 ek ætla þat nú litlu skipta. Konungr mælti: ertu sárr mjök?[4]) Hann kvað lítit bragð at því, en feck ek eina skeinu af sverði þínu í dag ok ætla ek þó litt tekit hafa. Konungr bað hann sýna sér. Hann fletti þá af sér klæðum. Sá þeir, at víða var ristinn kviðrinn á hónum. Konungr hugði at ok mælti: þat 25 hygg ek, at þú sér græðandi, ef læknar taka; sýniz mér, sem ecki muni lífhinnan sködd, vil ek bjóðaz til at græða þik, ef þú vilt geraz minn maðr ok veita mér fylgð ok þjónustu. Þórir segir: ef ek skal nöckurn tilkjósa, þá mun ei annann heldr en yðr ok með því, at þér gefið grið Hálfdani konungi 30 ok hans mönnum, þvíat ecki eflir hann því, at stríða í móti yðr. Var ek af því tregr til at ganga í bardaga þenna, at ek þóttumz sjá, hversu fara mundi, at annarrhvárr ockar mundi hníga fyrir öðrum. Fór ek því undan, sem ek mátta, þótti

1) *So S,* fallinn *die übrigen.* 2) *So ACS,* þá bað konungr menn fara til skipa sínna ok binda sár sín ok var svá gert *E,* bað konungr menn sína, at binda um sár sín ok svá var gert *f.* 3) *Cap.-Überschrift nur in S.* 4) nöckut *Ef.*

mér þat óbætiligr skaði ríki þínu ok liði, ef þér yrði nöckut ok því geck ek eigi móti þér eptir megni. Varð þetta ok ecki eptir þínum vilja, þóat þannig bæriz at. Hrólfr konungr tekr nú enn til atgervi sinnar, þeirrar er hónum var gefin umfram aðra menn. Hafði hann með sér öll lækningarlyf, þau sem bezt kunnu verða. Konungr tekr þá ok fægir sárit með mjúkligri þjónustu. Eptir þat tekr konungr nál með silkiþræði ok saumar aptr [1]) kviðinn á hónum. Síðan bar hann á smyrsl ok heilivág ok alt þat, sem græðiligast var, bindr um ok býr um með öllu heilsamliga. Þótti Þóri taka or allan sviða ok verk or sárinu ok náliga þóttiz hann allheill þessa sárs. Gengu síðan ofan til skipa ok vóru þar um nóttina. Ok um morguninn þegar í ár býr konungr lið sitt ok ferr þegar til borgarinnar. Var þar engi viðrtaka, var Hálfdan konungr höndum tekinn. Taka þeir tal með sér ok sættuz [at umskapan Hrólfs konungs ok eptir þat fóru þeir til skipa ok bundu sár sínna manna, en heygðu þá sem dauðir [2]) vóru. En Hálfdan konungr bjóz til veizlu ok at ákveðinni stundu ok stefnu kom Hrólfr konungr til borgarinnar með sínu liði. Geck Hálfdan konungr í móti þeim með miklu liði ok allzkonar dýrð ok fagnaði. Sátu þeir þar með mikilli gleði ok skemtan ok at þeirri veizlu feck Ketill Álofar, dóttur Hálfdanar. Gaf Hrólfr konungr þeim Gautland ok þar með konungsnafn ok at lokinni veizlunni bjögguz þeir. Þórir réz þá til ferðar með Hrólfi konungi. Þótti Hálfdani þó mikit, at missa jafnágætz mannz. Hálfdan konungr gaf Hrólfi konungi marga dýrgripi; hann gaf hónum horn harðla mikit ok ágætt. Sú var náttúra á horninu, at fyrir tíðindum gall í því svá hátt, at heyra mátti um valska mílu; svá ok, ef ei var rétt atfarit at drecka af horninu, þá skall í hátt,

---

1) saman *Ef.* 2) *Bis* -ðir vóru *abgeschnitten vom obern Rande in S, eingesetzt nach E* (*statt* Taka þeir tal með sér ok sættuz *hat E:* Tóku þeir sættum með sér at umskapan . . .); *in S sind die Worte* at umskapan Hrólfs konungs *noch erkennbar;* ok sættuz með því, at Hrólfr konungr skyldi ráða giptingu Ólofar konungsdóttur, ok eptir þat fóru þeir til skipa ok bundu um sár manna sínna, en heygðu þá sem dauðir vóru . . . *f;* var Hálfdan konungr handtekinn ok gaf Hrólfr konungr hónum grið fyrir bæna sakir Þóris á þann hátt, at Hrólfr konungr skyldi einn öllu ráða þeirra í millum; játar þá Hálfdan konungr, at gipta Katli dóttur sína. Síðan ferr Hrólfr konungr til skipa ok lætr binda sár sínna manna, en heygja þá sem fallit höfðu *AC.*

en ecki náði dryckinum. Gullhringr harðla mikill var í stiklinum hornsins; var þat kallaðr Hringhorni, þótti þat vera mikil konungsgersemi. Skildu konungar með inni mestu blíðu, þóttiz Hálfdan konungr sjá, at Hrólfr konungr var mikit afbragð annarra manna. Þótti mönnum mikils vert um styrk hans ok harðfengi, þar sem hann hafði einn yfirkomit tólf berserki, þá er þeir ætluðu, at ecki mundi granda[1]) ok höfðu jafnan unnit mikinn sigr. [Eptir þetta halda þeir í[2]) braut af Garðaríki at fenginni konu harðla ágætri ok mörgum öðrum góðum gripum. Koma heim til Svíþjóðar, verðr alt fólk þeim stórliga fegit, tóku þeir allir saman ágæta veizlu ok eptir þat fór Ingjaldr heim til Danmerkr, en Ketill fór til Gautlandz ok settuz í ríki sín. Skipuðu ok stjórnuðu með miklum veg ok sóma, en Hrólfr konungr sat í Svíþjóð ok þeir Ásmundr báðir. Ok þann sama vetr andaz Eirikr konungr á Svíþjóð. Tók þá Hrólfr konungr ríki ok gerðiz einvaldzkonungr yfir Svíþjóð ok öllu því ríki, er átt hafði Eirikr konungr. Stýra nú allir þessir höfðingjar ríkjum sínum með sæmd ok góðri stjórn, friði ok vinsæld. Líða nú nöckurir vetr.

## 29. Viðrtal Hrólfs konungs ok Ásmundar.[3])

Einn tíma er þess getit, at þeir talaz við, Hrólfr konungr ok Ásmundr. Höfðu þeir þá setit um kyrt nöckur misseri. Þá mælti Ásmundr: svá er með vexti, herra! at ek vilda staðfesta ráð mitt ok kvángaz. Geriz faðir mínn gamlaðr mjök, á ek at taka ríki eptir hans dag. Hvar horfir þú á um þetta mál, eða hver er sú kona, er þik girnir at fá? Ásmundr svarar: Hrólfr heitir konungr, er ræðr fyrir Írlandi, mikill hermaðr. Hann á dóttur vitra ok væna, er Ingibjörg heitir; er þat inn ágætasti kostr. Nú vilda ek þar til hafa yðvarn styrk ok harðfengi, at ná þessu ráði mér til handa. Konungr segir: eigi mun þér ókunnigt, hverr maðr Hrólfr konungr er við at eiga, þar sem hann er fullr upp illzku ok gerninga ok má ecki á óvart koma. Er ok ilt at sækja á Írland með her; er þar fjölbygt mjök ok mannmart ok ilt atsiglingar. Ek hefi

---

1) bella *AE,* viðstanda *C, fehlt f.* 2) *Mit* Eptir þetta halda þeir í — *schliesst das 2. Blatt des Fragmentes E, darauf defect.* 3) *Cap.-Überschrift nur in S.*

ok þat heyrt, at nöckurir mikilsháttar menn hafa leitat þessa ráðs ok hefir engi fengit útan skömm ok sneypu. Nú veiztu, fóstbróðir! at oss ganga ecki svá mjök kvánbænirnar eða auðvelliga, þar sem vér verðum at sækja með bardaga ok styrjöld
5 ok miklum mannskaða, ok þóat konungarnir sjálfir vili eigi stríða í móti oss, þá taka konurnar sjálfar skjöld ok sverð ok stríða í móti oss með styrk ok harðfengi ok margskonar vitrligum ráðum. Nú munum vér annars leita ok léttara en ganga í fang Hrólfi konungi með slíka ætlan. Hygg ek Svíum,
10 Dönum ok Gautum mál þickja, at létta þessu sucki ok hætta hernaði ok hafa eigi svá mikinn kostnað hvert sumar eptir annat. Fann Ásmundr, at konungr fór mjök undan ok taldi órifligt um þessa ferð. Vissi hann ok, at þetta var alt satt, sem konungr sagði, at Írakonungr var inn versti við at eiga,
15 ok at hann hafði marga skemmiliga [leikit, er þangat höfðu[1]) mægða beðit. Lét Ásmundr þó ecki annat sér at skapi ok talaði optliga um fyrir konungi, bað hann fá sér styrk til, þóat hann vildi eigi sjálfr fara ok leggja ráð til með hónum. Konungr kvez ætla, at þat mundi til lítils koma annars en
20 hann fengi mannskaða því meira. [En er Ásmundr sá, at konungr var fastr fyrir um þetta mál ok ecki auðsveigðr eða talhlýðinn um þat, sem hann vildi eigi; Ásmunðr biðr[2]) þá dróttningu túlka sitt mál ok segir henni sinn vilja ok viðrtal þeirra konungs. Dróttning kvez gjarna vilja gera hans vilja
25 í öllu því, er hans sæmd væri þá meiri en áðr; en til þessarar yðvarrar ferðar[3]) kann ek sízt at leggja með því, at ek kann eigi ráð til at gera, þau er yðvarri ferð mætti sæmd atverða ok yðr sjálfum frami ok tign við þann, sem um er at eiga, þar sem er Hrólfr konungr, er harðastr konungr er fyrir sakir
30 margrar illrar náttúru. Mun Hrólfr konungr Gautreksson slíkt ísjá, þar sem hann er vitr maðr ok forsjáll ok getr mörgu nær. Ok eitt sinn er þess getit, er þau talaz við, Hrólfr konungr ok dróttning. Spurði hón, hvárt hann skæriz[4]) undan ferðinni við

1) *Abgeschnitten vom obern Rande in S, eingesetzt nach AC, zu welcher Lesart auch die noch erhaltenen unteren Buchstabentheile in S stimmen;* útleikit, sem höfðu til hans mægða leitat *fG.* 2) *Dieselbe Construction in f,* finnr hann dróttningina ok biðr hana ... (*statt* Ásmundr biðr þá ...) *G,* þá biðr Ásmundr dróttningu *AC.* 3) beizlu *ACf.* 4) skyti *A, aber* skæriz *C.*

[Ásmund, fóstbróður sinn, til Írlandz.[1]) Konungr kvez heldr þat gert hafa. Hón mælti: eigi veit ek þann mann, at þér ættið heldr sæmdar at leita en þar sem Ásmundr er; hefir hann yðr lengi vel fylgt ok þjónat kurteisliga ok verit með yðr í margri hreystiferð ok þolat með yðr bæði blitt ok stritt 5 ok reynz jafnan inn vaskasti maðr. Konungr mælti: ecki ganga oss kvánbænirnar svá auðvelliga, þótt eigi sé við ⌊slíkan heljarmann[2]) at eiga, sem Hrólfr Írakonungr er; munum vér [létta af um kvennamálin[3]), eða hvert ráð leggr þú til þessarrar ferðar með því, at þú fýsir svá mjök, þat at vænast sé til 10 framkvæmdar? Hón kvez eigi ráð þar kunna til at leggja, kvað þat mundu takaz eptir auðnu ok tilstilli, ef þeir kæmi fram ferðinni. Er þat ráð mitt, at þér hafið ecki mikit lið; ek vil ok, at þeir siti heima eptir, Ketill ok Ingjaldr ok hafið ecki lið af þeirra ríkjum. Þórir Járnskjöldr skal ok eptir vera 15 hér í Svíþjóð til landvarnar, en þit Ásmundr skuluð fara ok hafa ecki meirr en tólf skip ok dreka þínn inn þrettánda; þickjumz ek þat vita, ef yðr verðr eigi aptrkvámu auðit, en þessir siti allir eptir, at slíkra manna mun greypiliga hefnt verða. Konungr mælti til Ásmundar: með því, fóstbróðir! at 20 ek ferr með þér ferð þessa, slík sem hón verðr, skaltu tilvinna nöckut. Konungrinn, faðir þínn, á dóttur fríða ok fagra, er Margrét heitir; þessa mey skaltu gefa í mitt vald ok forsjá. Ásmundr kvez þat gjarna vilja, kvaz því treystaz, at konungr mundi eigi verr fyrirsjá en hann sjálfr. Ok eptir þat hafa þeir 25 ætlan á ok tilskipan um sína ferð ok at sumarmagni vóru þessi skip búin ok þat lið, sem konungi fylgði. Þórir vildi miklu gjarnara fara með konungi en sitja eptir, en þess var engi kostr. Bað konungr hann hafa landráð ok ríkisstjórn meðan þeir væri brottu. Konungr átti sonu tvá; hét inn ellri 30 Gautrekr, en inn yngri Eirikr ok vóru báðir inir efniligustu.

## 30. **Sigling Hrólfs konungs.**[4])

Þá er búit var lið Hrólfs konungs, heldu þeir í brott af Svíþjóð ok vestr um haf. Gaf þeim heldr litt. fengu veðr stór

---

1) *Mit* Ásmund, fóstbróður sinn, til Írlandz *setzt F wieder ein.* 2) slíka heljarmenn *ACF* (*aber auch hier wie in S* sem Hr. Írakgr er). 3) fyrirlítligri verða heðan af en hingat til um kvennamálin *F, ebenso G nur* kynligri. 4) *Überschrift nur in S.*

ok óhæga byri ok myrkva mikla, tókz þeim heldr ógreitt, lágu löngum við sker ok úteyjar, mættu þeir jafnan víkingum; fóru þeirra skipti svá, at konungr feck sigr ok sæmd, en víkingar skömm ok skaða, ok at áliðnu sumri kómu þeir við England.
5 Réð þar fyrir Ella[1]) konungr, ríkr ok stórhugaðr, ok er hann spyrr kvámu Hrólfs konungs Gautrekssonar, sendir hann menn á hans fund ok býðr hónum til veizlu til hallarinnar með svá mikit lið, sem sjálfr hann vildi. Konungr bar þetta mál fyrir lið sitt ok spurði, hversu fýsiligt þeim þætti, at sækja veizluna.
10 Þeir báðu hann fyrirsjá. Konungr kvez til mundu hætta ok bjóz með hundrað liðs.[2]) Svá er sagt, at Ella konungr átti dýr eitt, þat er svá var grimt ok ólmt, at engu vætta eirði, bæði mikill ok sterkr; þat var it óarga dýr. Var Englismönnum mikit traust at dýrinu [ok í bardögum[3]) var því slegit
15 lausu ok drap þat niðr fjölda liðs ok mörg hundruð með sínum mætti ok afli; var þat örugt til landvarnar.

## 31. Svik við Hrólf konung.[4])

Tveir menn eru nefndir með konungi; hét annarr Sigurðr, en annarr Barðr, bræðr tveir ok mikils metnir í hirð konungs.
20 Þessir bræðr höfðu geymslu yfir dýrinu; var þess vandliga gætt ok bundit sterkligum viðjum.[5]) Þessir bræðr vóru ójafnaðarmenn miklir ok heldr illfúsir, ok er þeir urðu þess vísir[6]), at Hrólfi konungi var þangat boðit, þá mælti Sigurðr: hvert ráð skulum vit tilfá, at konungi þessum verði fyrirkomit, er
25 allir menn hæla ok gera ágæta hans frægð. Þicki mér ilt, ef hann fær nöckura framkvæmd eða frama af várum konungi. Er þat helzt mitt ráð, at vit farim á skóg, þannig sem konungsins er ván ok sláim lausu dýrinu. Mun konungr þessi ecki svá mikilsmáttar, at hann sigri dýrit, heldr mun þat
30 hann sigra ok hónum at skaða verða; færi þá, sem skyldi ok ek vildi. Barðr mælti þessu i móti, kvað þetta óvitrligt ráð, kvez ætla, at ei mundi framgengt verða. En ei at síðr varð þetta þeirra ráð ok fóru á skóginn með dýrit ok leynduz þar

---

1) Ellingr *F*, Erlingr *G*. 2) liði *S*. 3) ok þegar Englandz konungr helt bardaga *F*, konungi þótti góðr gripr í dýrinu, þvíat þegar ófriðr var gerr á ríki hans, lét hann slá lausu dýrinu *AC*. 4) *Cap.-Überschrift nur in S; in F Abschnitt nach* ok bjóz með hundrað manna *(Z. 11 Text)*; *in ACG kein Abschnitt.* 5) járnviðjum *ACF*. 6) varir *ACF*.

til í skóginum, er þeir sá ferð Hrólfs konungs ok hans manna. Höfðu þeir áðr ært dýrit með víni ok allzkonar dryck ok slógu síðan lausu ok létu hlaupa, en fálu sjálfa sik. Hrólfr konungr ok hans menn heyrðu brak mikit í skóginn ok illilig læti [ok nema staðar ok þickjaz eigi vita, hvat vera mun.[1]) 5
Þá mælti konungr: þat hefi ek heyrt, at Englismenn eigi dýr, þat at harðla sé grimt ok ilt við at eiga. Má vera, at eigi sé alt [af trúleik[2]) við oss. Nöckuru síðar sá þeir, at dýrit kom fram or skóginum harðla mikit ok hræðiligt ok fór með miklum grimmleik. Vóru þeir flestir, at heldr sló skelk í 10
bringu við þessa sýn ok fýstuz litt á fram móti dýrinu. Þá mælti Hrólfr konungr: þat mun hæfa, at vér sém eigi ráðlausir við þessum víkingi, er í mót oss ferr. Skulum vit Ásmundr ganga fram fyrir liðinu. Hér standa eikr tvær skamt frá oss ok standaz svá nær, at lítit hlið er í milli, en fram frá annarri 15
eikinni stendr stofn einn ok hefir verit höggvit ofan af. Nú skaltu, Ásmundr! vera hér í mestri raun af várum mönnum; skaltu standa uppi á stofninum, svá at þik megi sem gerst sjá. Er þat ætlan mín, þá er dýrit sér manninn, at þat stefni at hónum sem beinast ok get ek, at þat hlaupi fram milli eik- 20
anna. En þær standaz svá nær, at þat mun eigi framkomaz lengra en at bógunum. Þat mun gjarna vilja ná manninum, en mun eigi ná fyrir eikunum. Þá mun þat lengja hálsinn ok höfuðit ok slá út tungunni ok ætla svá, at ná þér. Þú skalt hafa sverðit brugðit ok verja þik með. Mun ek þá leita við, 25
at veita þér nöckut, ef svá vill tiltakaz, en annat lið várt feliz í skóginum. Ferr þetta nú eptir ætlan konungs, ok þegar dýrit sér manninn, hleypr þat at með grimd ok ákefð ok þegar fram milli eikanna ok ætlaði at slá manninn við þat, sem konungr gat, at þat komz eigi fram lengra en at bógunum; lengði þá 30
hálsinn ok höfuðit ok brá út tungunni ok ætlaði at krækja til Ásmundar, en Ásmundr hjó í sundr tunguna í dýrinu ok í því kom Hrólfr konungr at ok hjó með Risanaut ok í sundr dýrit fyrir framan bóguna. Ok er þetta sjá þeir bræðr, Sigurðr ok Barðr, fara þeir heim skjótliga ok segja Ellu konungi þenna 35

1) Nemum stað, sagði konungr, ok vitum, hvat um er *F*, Konungr biðr þá stað nema ok hugsa til, hvat látum vera mun *AC*. 2) trúligt *F*, af trúnaði *AC*.

inn fáheyrða atburð, hversu þessi konungr hafði dýrit unnit, þat er þeir ætluðu, at ecki mundi bella. Konungr spurði, hversu þetta hefði atboriz. Þeir sögðu eptir því, sem farit hafði. Konungr varð þeim stórliga reiðr, kvað eigi þeirra færi, 5 at þreyta hamingju við Hrólf konung, lét þá taka báða ok setja í bönd, en konungr sjálfr fór í móti Hrólfi konungi með miklu liði, kvað þat líkligt, at konungr ætlaði þetta nöckut af hans ráðum, er þessir menn hafa á hendr tekiz. Ok er þeir Hrólfr konungr sá lið mikit fara í móti sér velbúit bæði 10 at vápnum ok klæðum, þickjaz þeir nú víst vita, at ófriðr mun vera. Þá mælti Hrólfr konungr: annathvárt er nú, at konungr þessi er fullr upp flærðar ok undirhyggju ok hefir þetta hugsat þegar í fyrstu, at svíkja oss með níðingskap; hit ella, at þetta eru ecki hans ráð ok hafa nöckurir vándir menn 15 tekiz þetta á hendr ok gert þetta til óvinganar við oss af illum vilja; þat munda ek ok hvergi síðr ætla. Gerum oss nú sem traustasta ok göngum [at sem djarfligast[1]) ok látum þá engan bilbug á oss sjá, hvárt sem þeir vilja oss gott eða ilt, ok ef þess þarf við, deyjum heldr við sæmd en lifum við skömm. 20 Þeir herðu þá hugina ok báðu þann aldri þrífaz, er eigi gengi vel fram [ok var þess ei ofbeðit. Þeir fóru[2]) með fylktu liði. Reið Hrólfr konungr í miðri fylking ok hafði bert sverð Risanaut ok létu allir it vígligasta. Ok er þetta sér Ella konungr, lætr hann bregða upp friðskildi ok ríðr fram móti Hrólfi kon- 25 ungi ok fagnar hónum vel; endrnýjar þá enn boðit við Hrólf konung, ok er Hrólfr konungr sér slíkt bragð[3]) á Ellu konungi, tekr hann því vel. Fara þá allir saman til borgarinnar; er þar [in bezta veizla ok harðla góðr fagnaðr.[4]) Talaz konungarnir við ok koma upp þessi svik, er þessir inir vándu 30 bræðr höfðu gert. Vildi Ella konungr láta drepa þá, en Hrólfr konungr vildi láta gefa þeim grið ok bað þá verða í burtu af Englandi. Lét konungr fá þeim skip ok fé nöckut, fóru þeir eptir því, sem Hrólfr konungr mælti fyrir; eru þeir or þessi

---

1) *Mit* at sem hraustligast (*für* djarfligast) *beginnt das 3. Blatt der Hrólfssaga in E.* 2) *Fehlt S* (*also:* er eigi gengi vel fram með fylktu liði *S*), *eingesetzt nach E; in F folgt auf* velfram *sogleich* gengr konungr í miðri fylking ...; aldri þrífaz, er eigi dygði sem mætti. Þeir fóru með fylktu liði *AC.* 3) blíðubragð *ACE*, *ungenau F.* 4) inn bezti fagnaðr ok harðla fögr veizla *ACE*, inn mesta veizla ok fagnaðr *F.*

sögu. Eptir þetta taka konungar tal með sér. Spyrr Ella konungr eptir um ferð Hrólfs konungs, en hann segir hónum alt eptir því, sem ætlat var. Konungr kvað þat vera heldr óvænliga ferð, kvað hann Írakonung vera illan ok harðan við at eiga, bað Hrólf konung ecki tilætlaz þessarrar ferðar á því 5 sumri, bauð hónum með sér at vera með hundrað manna, en þeir vistaði annat [lið hans[1]) þar á Englandi nær sér. Þetta boð þiggr Hrólfr konungr, hafði Ella konungr þar fyrir alla ætlan ok tilskipan með kostnaði. Sitr Hrólfr konungr nú á Englandi með öllu liði sínu með mikilli sæmd ok gleði. [Veitti 10 konungr hónum it kappsamligasta ok var inn blíðasti við þá.[2]) Líðr nú svá fram um hríð.

## 32. **Dráp kerlingar.**[3])

Þess er getit einn dag, at þeir Hrólfr konungr ok Ásmundr gengu úti tveir saman um þorp at skemta sér, ok er þeir ætluðu 15 heim at ganga til hallarinnar, kom at þeim kerling ein gömul mjök ok bograði með tvá stafi. Kerling rak upp nasarnar[4]) ok mælti: hverir eru þessir inir tiguligu menn? Þeir sögðu. Kerling mælti: ertu Hrólfr konungr Gautreksson? Hann kvað svá vera. Hón mælti: svá líz mér, sem sagt hefir verit, at þú 20 værir hverjum konungi vænni ok kurteisligri ok at öllum hlutum afbragð annarra manna. Er þat ætlan mín, at af þér hljóta ek nöckut gott ok af þínum ráðum. Konungr spurði, hvers hón þyrfti við. [Hón segir[5]): ek á lítit efni, ek em ein í húsi ok dóttir mín, er unnit hefir fyrir mér, in vænsta kona at sjá, 25 en nú er hón mér verri en engi, þvíat maðr venz til at glepja hana; er mér þat mjök móti skapi. Gáir hón einskis fyrir hónum, er hann mikill ok sæmiligr at sjá, en þó er mér ecki um hann. Vilda ek, herra! at þér kæmið þar ok talaðið við þenna mann. Mun hann gera fyrir orð yður, at láta af fíflingum 30 við dóttur mína. Konungr kvez víst skyldu koma nöckurn dag, at finna þau. Vísaði hón þeim til húsa sinna. Geck konungr heim til hallarinnar ok liðu nú nöckurir dagar. Ok

---

1) *So ACS,* lið sitt *EF.* 2) *Fehlt EF.* 3) *Cap.-Überschrift so in S, auch in E Überschrift:* Ásmundr drap kerling *(das letzte Wort sehr undeutlich).* 4) smettuna *E.* 5) *Mit* Hón segir *schliesst wieder ein Blatt in F, das folgende Blatt fehlt, ergänzt nach f.*

einn tíma talaði konungr til Asmundar, at vel mundi fallit, at vitja kerlingar. Ásmundr segir: þat ætla ek vera illa kerlingu ok prettvísa ok er mér ecki um hana. Konungr kvað nauðsyn, at sá maðr gerði henni eigi vandræði. Ásmundr kvez eigi
5 hirða, þótt hann hefði þær báðar, ok eptir dryckju um daginn gengu þeir til húsa kerlingar. Þar var lítil stofa ok kyrfilig. Sat þar kona á palli ung ok væn. Sat þar maðr hjá henni mikill ok inn hraustligasti; hann sat með allvæpni ok talaði við konuna. Kerling lá í pallzhorni ok hafði yfir sér skinn-
10 filluhökul illan ok vándan ok lét sem vesælligast. Þau fögnuðu konungi vel, settuz þeir niðr á annann pall ok er þeir höfðu setit um stund, þá mælti konungr: hverr er þessi maðr, er hér sitr fyrir? Hann segir: ek heiti Grímr eins bónda sonr á land upp, er Þórkell heitir. Konungr mælti: þú ert þrífligr maðr,
15 eða ertu hingat mjök optkvæmr til húsa kerlingar? Hann kvez þar jafnan koma. Konungr mælti: kerling þessi kveinar nöckut um fyrir mér, at henni þickir þú gera ærit margtalat við meyna, dóttur hennar. Þickiz hón afla lítils á vinnu hennar, en kveðr þar við liggja björg þeirra beggja. Nú vil ek biðja þik, at
20 þú látir af, at gera kerlingu þessa skapraun; er þér í því lítilræði, en engi frami með því, at henni þickir sér meingerð í vera. Er mér þöck á, at ek þurfa lítils við um at tala, vil ek bjóðaz til, at veita þér nöckut í móti. Grímr segir: þat hafða ek ætlat, at gera ecki breytni á ferðum mínum, hverr
25 sem umtalaði, en [eptir þínni bæn[1]) skal gera svá, sem yðr þickir bezt. Mun ek eigi lítils beðinn verða af ágætara konungi en þér eruð, vil ek ok ecki fresta, at biðja yðr í móti. Er þat bæn mín, at þér takið við mér; fýsumz ek, at geraz yðvarr maðr ok fara með yðr til Írlandz at sumri; er mér
30 forvitni á, at reyna mik, hefi ek aldri í nöckurri styrjöld staddr verit hér til. Konungr svarar: [þetta vil ek gjarna gera.[2]) Líz mér á þik ok gæfusamliga ok kom til mótz við oss at sumri. Ráða nú þetta með sér ok þegar geck Grímr í braut; skildu þeir konungr með blíðu. Ok er hann var bruttu reis kerling
35 upp ok þackaði konungi orð sín ok áðr konungr ætlaði á braut at ganga, mælti kerling: kunnið þér nöckut, herra! at

---

1) eptir yðvarri bæn ok vilja *ACE, ungenau f.* 2) þetta vil ek veita þér sannliga *ACE, ungenau f.*

lyfja mér elli? Konungr svarar: ecki kann ek at því ok eigi
veit ek, hvat þat er. Þá mælti Ásmundr: opt er þat í karls
húsi, er eigi er [í konungs[1]); ek kann þat gera, kerling! at
lyfja þér ellina, ef þú vill þiggja at mér. Hón kvez þat gjarna
vilja.[2]) Ásmundr hafði eina handöxi í hendi sér ok bað kerling 5
lúta. Hón gerði svá. Ásmundr[3]) lét hlaupa öxina á háls
henni, svá at aftók höfuðit ok mælti: nú lyfjaða ek þér elli.
Hrólfr konungr hafði ecki geymt til tals þeirra kerlingar ok
leit hann til í því, er affauk höfuðit. Hrólfr konungr varð
þessu svá reiðr, at hann helt við, hvárt hann mundi eigi ráða 10
til Ásmundar, ok kvað þetta svá ilt verk orðit ok óheyriligt,
at þeir mundi aldri bót bíða ok þessi skömm mundi lengi uppi
vera, at þeir skyldi hafa drepit gamla kerlingu fátæka ok
saklausa í ókunnu landi. Ásmundr kvað undarligt at verða
illa við slíkt; varð þeim þetta nöckut at sundrþycki. Ganga 15
heim eptir þat til hallarinnar, ok er menn vóru komnir undir
dryckjuborð, fann Ella konungr, at Hrólfr konungr var ecki
með blíðu bragði ok spurði konungr þegar, hvat tilbar, en
Hrólfr konungr sagði svá, sem farit hafði, ok kvað þetta orðit
it mesta slys. Ella konungr bað hann ecki þetta mæla, var 20
hón in versta kerling ok full flærðar ok ljóna, ok er miklu
betr, at hón sé afráðin. Ásmundr kvez aldri hafa sétt Hrólf
konung jafnreiðan fyrir lítit efni sem þá, eða jafnskjótt á
hann fá, þat er einskis var vert.

## 33. Róg við Hrólf konung.[4]) 25

Þat er sagt, at nöckurir mikilsháttar höfðingjar á Englandi
urðu til þess, at rægja Hrólf konung við Ellu konung. Sögðu
hann búa um svikræði við hann ok ætla at komaz at ríkinu,
hvat sem hann ynni til. Konungr mælti þessu í mót, var þat
lengi, at konungr gaf sér ecki at ok heldr uppteknum hætti 30
um kæti ok gleði við þá Hrólf konung. Ok er konungr var
jafnan á þetta mintr, þá íhugaði hann þetta meirr ok meirr ok
þótti vera mega, at satt væri. Fundu menn þá bratt, at skip-

1) í konungs ranni *CEf, wie S ohne* ranni *A.* 2) *Nach* gjarna vilja *hat E:* Ásmundr mælti: lengðu fram hálsinn, en teyg búkinn. Ásmundr hafði eina ...; *ähnlich f statt* ok bað kerling lúta: ok bað kerling at teygja hálsinn, en lengja búkinn ... 3) *Mit* Ásmundr *schliesst Blatt 3 des Fragmentes E.* 4) *Cap.-Überschrift nur in S.*

aðiz lyndi konungs, gerðiz hann fálátr. ok óblíðr bæði við Hrólf konung ok aðra menn. Þat var eitt kveld, at druckit var lengi ok veitt kappsamliga Hrólfi konungi ok hans mönnum; urðu menn stórmjök drucknir. Þeir Hrólfr konungr höfðu
5 einir[1]) svefnskemmu ok um kveldit gengu þeir at sofa. Ella konungr geck ok þannig til svefns með þeim einn sínna manna. Ok um nóttina vakna þeir við reyk mikinn ok [gný ok vápnabrak[2]) út at heyra. Konungr bað menn uppspretta vaskliga ok taka vápn sín, bað konungr rífa upp setstockana ok færa
10 þá fram á brjóstþilit; geck þat skjótt, er atgengu sterkir menn. Ella konungr vaknaði ecki við þenna gný, brak ok háreysti, en Hrólfr konungr lét taka hann upp með öllum klæðunum ok bera svá út. Ok er þeir kómu út allir, sá þeir, at þar var komit mikit fjölmenni; tókz þar þegar in snarpasta orrosta.
15 Ok er þetta sér Ella konungr, biðr hann hætta hváratveggju, segir þá Hrólfi konungi alt, sem farit hafði, kvað þetta sín ráð verit hafa ok bað konung fyrirgefa sér þenna mishuga, en bauð at láta drepa þá, sem fyrst höfðu kveykt þetta róg. Hrólfr konungr kvað þá ecki skyldu drepa fyrir þetta; varð hann
20 fyrir þetta stórvinsæll af Englismönnum. Tóku konungar nú at halda uppteknum hætti um sína vináttu. Veitti Ella konungr Hrólfi konungi it stórmannligasta ok öllu hans liði. Líðr af vetrinn ok váraði.

## 34. Hólmganga Hrólfs konungs.[3])

25 Þat var einn morgin snemma, at Hrólfr konungr geck or sæng sínni einnsamt ok braut frá skemmunni eigi allskamt. Hann hafði fátt klæða, en þess geck hann hvergi, at hann hefði eigi sverðit Risanaut, hvárki nótt né dag. Konungr litaðiz um víða, ok er hann ætlaði heim til skemmunnar, sér
30 hann, hvar maðr ríðr ákafliga mikinn; sá var vel vápnaðr, maðrinn, ecki mikill á baki, ok þó inn kvikligasti. Ok er þessi sér, þar er hann stendr, þá víkr hann þannig. Hann hafði sétt Hrólf konung fyrr ok stígr af baki ok kveðr hann sæmiliga. Konungr tók kveðju hans vel ok spurði, hvaðan hann væri, eða hvert nafn hans væri. Hann kvez Þórðr heita

1) eina *f, ohne genaue Entsprechung AC.* 2) *Mit* gný ok vápnabrak *setzt F wieder ein.* 3) *Cap.-Überschrift nur in S.*

ok eiga bú á land upp. Konungr spurði, hvert hann ætlaði at ríða. Þórðr segir: ek ætla nú eigi lengra fram á leið, er ek hefi yðr fundit. Konungr spurði: hvert er erindi við mik? Hann svarar: ek em við vant um kominn. Fyrir þrimr nóttum kom til mín maðr, sá er Hárekr heitir, ef mann skal kalla, 5 þvíat eigi er hann ólíkari trölli en manni. Er hann inn mesti berserkr ok ójafnaðarmaðr. Ek á systur, er Gyða heitir, ok er inn bezti kostr. Þessi maðr vildi taka systur mína frillutaki, en ek vilda þat eigi. Þá skoraði hann mér á hólm ok játaða ek því. Nú sé ek, at þat er ecki mitt færi, at berjaz við þetta 10 flagð. Hefi ek spurt, herra! til hreystiverka yðvarra margra, vil ek biðja yðr, at þér leysið mik undan þessum háska ok ráða af berserkinn. Konungr mælti: litt ertu viðkominn ok vil ek víst finna þenna mann. Mun ek ganga inn ok taka vápn mín ok klæði ok vekja upp menn mína til fylgðar. Þórðr 15 mælti: ecki má svá vera; verðið þér þegar at fara svá búnir. Óttumz ek, at berserkrinn sé kominn, mun hann hyggja mik svá ragan, at ek þora eigi at bíða hans ok taki hann á braut systur mína. Nú stígið upp á þenna hest, takið hér bæði vápn ok klæði, ok hafði hann þegar til reiðu ok var inn kviklátasti. 20 Þetta verðr konungi fyrir, at hann stígr á bak ok ríðr, en Þórðr hleypr fyrir. Var þat ei allskamt á land upp, ok er þeir kómu til bæjar Þórðar, var Hárekr eigi kominn. Sá konungr, at þat var góðr bær; gengu þeir til stofu. Var konungi búit hásæti, var þar mart manna, sýndiz konungi systir Þórðar[1]) 25 in sæmiligasta. Ok er þeir höfðu setit um stund, kom þar Hárekr ok þeir tólf saman, létu þeir it dólgligasta. Spurði Hárekr, hvárt Þórðr væri búinn til hólmgöngunnar. Hann segir: ek hefi fengit mann fyrir mik, sem skilit var með ockr. Hárekr spurði, hverr sá væri svá djarfr, at byðiz í mót hónum. 30 Þórðr segir, at þat var Hrólfr konungr Gautreksson. Hárekr segir: heyrt hefi ek getit Hrólfs konungs ok eru færri konungar nú ágætari fyrir hreysti sakir, íþrótta ok allrar atgervi. Er þat ok miklu jafnligara, at vit reynim með ockr. Þicki mér til einskis vera, at ganga í móti þér.[2]) Er þat ráð, Hrólfr 35 konungr! at standa upp með því, at þú vilt hætta virðing þinni undir vápn mín.[3]) Konungr kvez ætla, at hónum mundi

1) *So F,* þó *S,* Gyða *ohne* systir *AC.* 2) *So ACFs,* mér *S.* 3) *So ACF,* þín *s, in S steht* þnin.

lítil hætturaun í, at ganga í móti hónum. Eptir þat ganga þeir [á völlinn[1]) ok var kastat feldi undir fætr þeim. Sagði berserkrinn upp hólmgöngulög. Konungr hafði ecki fleira vápna en sverðit Risanaut. Þórðr helt skildi fyrir konungi
5 ok í fyrsta höggvi hjó Hrólfr konungr berserkinn í herðar niðr; fell hann skjótt dauðr til jarðar. Þórðr þackaði konungi mikilliga þenna sigr. Þórðr gaf Hrólfi konungi margar ágætar gjafar, þvíat hann var stórauðigr maðr. Konungr bað hann eigi gipta systur sína áðr en hann kæmi aptr af Írlandi,
10 ef þess yrði auðit, ok því hét Þórðr. Eptir þat fylgði hann konung heim. Var þá brak mikit í bænum [ok gnauð[2]) ok hafði Ásmundr vaknat lítlu síðar en konungr var í brottu ok hafði þegar leitat hans um allan bæinn ok var eigi í góðu skapi. Ok er konungr kom aptr, urðu menn hónum
15 stórliga fegnir. Spurði Ella konungr, hvert hann hefði farit. Hrólfr konungr sagði hónum, svá sem gengit hafði. Konungr kvað hann mikit happ unnit hafa, at hann hafði sigrat þann berserk, er verstr geck um England ok mestan ójafnað sýndi öllum mönnum í kúgan ok ránum ok bað hann hafa mikla
20 þöck fyrir. Marga aðra óspekt siðaði Hrólfr konungr þar um vetrinn ok fór víða um England, skipaði ok setti þeim málum, er Ella konungr átti dóm á, þvíat hann var gamlaðr mjök. Varð Hrólfr konungr inn vinsælasti, vildu allir svá sitja ok standa, sem hann vildi.

25 35. Um várit stefndi Hrólfr konungr at sér liði sínu ok bjögguz til Írlandz. Ella konungr bauð hónum lið af sínu ríki svá mikit, sem hann vildi sjálfr.[3]) Hrólfr konungr lét þar eptir dreka sínn ok öll in stærri skip sín, en tók þar smærri skip ok fleiri. En af Englandi höfðu þeir L[4]) skipa
30 ok öll smá. Grímr kom til mótz við Hrólf konung, sem þeir höfðu ákveðit ok mikit lið hafði hann af Englandi. Skildu konungar með blíðu ok at búnu liði sínu siglir Hrólfr konungr af Englandi. Gefr hónum þá vel ok koma við Írland þar nær, sem konungr átti atsetu. Var þat síð um kveld ok lágu
35 þar um nóttina. Svá er sagt, at Hrólfr Írakonungr hafði vitat fyrir kvámu nafna síns af margkunnandi sínni ok vísdómi, hafði hann stefnt at sér múg manna. Um morguninn mælti

1) út *ACF.* 2) *Fehlt ACF.* 3) hafa *ACF.* 4) XL *F,* XXX *AC.*

Hrólfr konungr Gautreksson til Ásmundar: mun eigi ráð, fóstbróðir! at vitja meyjarmálanna ok heyra svör af Írakonungi? Ásmundr kvez þess víst fýsaz. Konungr mælti: vér skulum fara friðliga ok með engu ofbeldi eða hernaði meðan oss er [engi ófriðr boðinn.[1]) Valdi konungr með sér hundrað manna, en bað liðit vápnaz ok vera búit við öllum hernaði, ef hann þyrfti til at taka. Ganga þeir frá skipum ok vera í skógi nær borginni. Ferr konungr nú þar til, er hann kemr nær borginni. Þá sjá þeir, at lið ferr móti þeim or borginni ok búit sem til bardaga. Konungr bað þá ganga [í móti[2]) djarfliga[3]), ok er þeir funduz, var þar kominn Írakonungr með sex hundruð manna. Þá mælti Hrólfr Írakonungr: gerla veit ek, Hrólfr Gautreksson! hverr þú ert, [svá ok Ásmundr, son Ólafs Skotakonungs! hverr þú ert.[4]) Ek veit ok erindi yðvart ok þurfið þér þat ecki upp at bera. Skal þér, Hrólfr konungr! gera skjóta kosti með því, at þú ert hverjum konungi frægri ok ágætari, þá skal þér leyfa[5]) brautför [at höldnu ok heilu liði þínu öllu[6]) ok koma aldri þessa erindis optar[7]), þvíat fremri ok ágætari[8]) hafa þeir verit margir, er þessa ráðs hafa leitat ok fengit þó eigi útan skömm ok skaða. Vilið þér ok eigi þeckjaz þetta várt boð, þá skuluð þér fara því hæðiligarr, sem þér þickiz meira verðir en aðrir menn. Þá segir Hrólfr konungr Gautreksson: með því, at þú ert svá vitr konungr ok forspárr, at þú veizt fyrir[9]) óorðna hluti, hug ok ætlan hvers mannz, [þá ætla ek[10]), at þat mundi forsjáligra, at þiggja þetta boð. [Ek hefi rekiz heiman[11]) or Svíþjóð með nöckuru liði ok heitit Ásmundi, fóstbróður mínum, fylgð[12]) til þessa; þá nenni ek eigi, at snúa aptr við svá búit ok reyna ecki framarr yðvarn styrk ok mátt. Írakonungr kvað hann þat kjósa, er hónum gegndi verr[13]) ok hans liði. Hrólfr konungr gerði þá njósn liði sínu ok bað þá eigi dvelja at duga sér. Ætlaði

1) *Mit* engi ófriðr boðinn *setzt wieder H ein.* 2) *Fehlt ACFH.* 3) *Fehlt ACF.* 4) eða hverr Ásmundr, sonr Ólafs Skotakonungs er *H,* ok hverr maðr Ásmundr er *F,* ok Ásmundr, fóstbróðir þinn, son Ólafs Skotakonungs *AC.* 5) lofa *FH.* 6) með liði þínu heilu ok höldnu *H,* með þínu liði *F,* með öllu heilu ok höldnu liði þínu *AC.* 7) *Fehlt FH.* 8) frægri *FH.* 9) *Fehlt ACFH.* 10) þá hygg ek þat *FH.* 11) en þar sem ek hefi rekiz heiman *ACFH.* 12) styrk *FH,* fylgð ok trygð *AC.* 13) *Fehlt S,* er hónum verst gegndi *s.*

Hrólfr konungr, [at Írakonungr mundi hafa ecki meira lið[1]) en þat, sem þeir sá, ok þóttiz í hendi hafa hans ráð, en Írakonungr hafði óflýjanda her innanborgar með öllum viðrbúnaði. [Vissu þeir Hrólfr konungr[2]) ecki til þess. Írakonungr vissi 5 ok eigi, at jafnnær mundi lið Hrólfs konungs Gautrekssonar í skóginum, sem var.

## 36. **Orrosta konunga.**[3])

[Hrólfr konungr Gautreksson bað nú veita[4]) þeim atgöngu. [Hrólfr Írakonungr bað sína menn[5]) hlífa sér ok hefjaz undan 10 ok lítlu síðar dreif [lið at Hrólfs konungs Gautrekssonar. Bað hann[6]) þá víkja aptr til borgarinnar; var þá mannfall mikit, áðr en þeir kæmiz innanborgar. Settu menn Hrólfs konungs eptir þeim með miklum ákafa ok þegar inn í borgina ok er lið Hrólfs konungs var alt komit inn í borgina, dreif lið at 15 þeim öllum megin. Fylktu þá hvárirtveggju. Er svá sagt, at Hrólfr konungr hafi haft nær XL hundruð manna, en Írakonungr eigi færra, þá er alt kom saman, en tíu þúðundir. Skaut liði Hrólfs konungs þá skelk í bringu ok þótti ofrefli í móti at ganga svá miklum múg mannz. Tókz þá bardagi bæði 20 langr ok harðr, sóttu Írar at með miklum ákafa ok mannfjölda ok þeirra höfðingi var harðla mannskæðr. Sá Hrólfr konungr, at ör fló af hverjum fingri hónum ok hafði hver mann fyrir sik. Lið Hrólfs konungs barðiz vel ok veittu Hrólfi, konungi sínum, góða fylgð i drengiligri vörn ok snarpri atsókn. Fell 25 þar margr maðr við góðan orðztír, þóat vér kunnim eigi at segja frá hvers mannz vörn eða framgöngu. Sýndiz þat þá, at margir höfðu ágætir menn fylgt Hrólfi konungi, ok meðan þeir vóru ómóðir, [feldu þeir margan mann[7]) ok höfðu hvergi á hæl hopat, þóat þeir ætti við mikinn liðsmun. Grímr, er 30 fyrr var getit, gerðiz auðkendr í þessum bardaga, var hann bæði fimr ok sterkr ok inn djarfasti í framgöngu. Hrólfr Gautreksson geck fram í orrustu þessi með mikilli grimd ok

1) at ei mundi meira vera lið Írakonungs *FH*. 2) Vissi Hrólfr konungr *FH*. 3) *Übcrschrift nur in S*. 4) *Conjectur gegen alle Hss.*, Hrólfr Írakonungr bað nú veita ... *alle Hss*. 5) *Conjectur gegen alle Hss.*; Hrólfr konungr *S*, Hrólfr Gautreksson *ACFH*. 6) *So S*, lið at Hrólfs Írakonungs. Bað hann ... *ACH*, lið at. Hrólfr Írakonungr bað ... *F*. 7) f. þeir m. m. til jarðar *ACFH*.

ákafa, [hjó hann til beggja handa[1]) með sverðinu Risanaut, hlífði hann sér hvárki [með hjálmi né skildi ok ei með brynju ok færði[2]) þó margan mann til heljar ok geck jafnan í gegnum fylkingar af mikilli hugarprýði. Með slíkum hætti geck Ásmundr ok fram, Skotakonungsson, [ok hann hjó[3]) mart ok stórt ok gerði mikit afhroð í sínni vörn. [Var þá bardaginn ákafr ok[4]) gerðiz it mesta mannfall í hvarratveggju liði. Fór þá sem jafnan kann at verða, at landherrinn verðr drjúgr; [sneri þá mannfallinu á hendr Hrólfi konungi Gautrekssyni[5]) ok hans mönnum. Ok þegar Írar fundu þat, at hallaðiz bardaginn á hendr Svíum, þá gengu þeir at djarfliga; fellu þá [menn Hrólfs konungs[6]) hverr um annann. Var þá gengit at öllum megin með ópi ok eggjan, ok er Hrólfr konungr sá, at lið hans fell, svá at fátt [gerðiz eptir[7]), bað hann víkja út at hallarvegginum ok láta hann hlífa sér. Þá mæltu menn, at þeir mundu flýja ok vita, at þeir næði til skipa. Konungr kvez eigi flýja vilja, [kvaz heldr falla vilja[8]) [en flýja[9]) með öllu liði sínu. Varð ok engum þat· fyrir hans manna, heldr fell hverr á fætr öðrum svá gersamliga, at ei stóðu meirr upp með Hrólfi konungi en tólf menn; vóru þeir þó mjök sárir ok ákafliga móðir. Þá mælti Hrólfr konungr til Ásmundar: þat er nú vænna[10]), fóstbróðir! [at tilhljóti[11]) at vinna nöckut mægðanna[12]) við Hrólf Írakonung, er þér fýstuz at fá. Þótti yðr ek tregr[13]) til þessarar ferðar; skal nú ecki afspara, at veita þér eptir megni, at heimta út meyjarmundinn. Hrólfr konungr spenti þá meðalkaflann[14]) tveim höndum ok hjó á báðar hendr bæði mart ok stórt ok veitti mörgum skjótt umskipti. Ásmundr ok Grímr veittu hónum góða fylgð. Er svá sagt, at þeir hlæði[15]) umhverfis sik, at þeir máttu varla vega fyrir. Fellu þá allir menn Hrólfs konungs nema[16]) þeir Ás-

---

1) hjó hann bæði mart ok stórt til beggja handa *FH.* 2) með hjálmi né brynju né skildi síðan skothríð linti ok færði ... *FH.* 3) at hann hjó *FH.* 4) *Fehlt FH (nach* vörn *folgt sofort* Gerðiz mikit mannfall ... *FH).* 5) *Mit* sneriz þá mannfallit á Svíana. Geck Írakonungr *schliesst F, das ff. ergänzt aus f.* 6) Svíar *fH.* 7) var eptir *ACfH.* 8) vil ek heldr hér falla *fH.* 9) *Fehlt ACfH.* 10) líkast *fH.* 11) *So HS,* at þú hljótir *f,* at hljóta *AC.* 12) *So CS,* til mægðanna *AfH.* 13) tregr ok seinn *ACfH.* 14) sverðit Risanaut *fH.* 15) hlóðu *ACfH;* hlóðu svá háva valköstu umhverfis sik ... *fH.* 16) útan *ACfH.*

mundr ok Grímr; vóru þeir þó mjök sárir, en ákafliga móðir, svá at þeir gátu varla staðit. Vóru þá bornir at þeim skildir öllum megin, ok áðr en þeir næði Hrólfi konungi, drap hann fimtán menn. Fór hónum þá, sem mælt er, at ecki má við 5 marginum. Vóru þeir þá allir handteknir[1]) of flettir bæði klæðum ok vápnum ok höfðu þeir bariz allan dag ok mjök svá nóttina. Fell þá svá gersamliga lið Hrólfs Gautrekssonar, at engi maðr komz undan. Höfðu þeir ok á ecki annat stundat en veita konungi sínum sem bezta fylgð. Svá mjök hafði 10 [gengit á lið[2]) Írakonungs, at hann hafði eigi meira eptir en fimm hundruð manna ok þó sárt mjök ok mott.

## 37. Þeir fóstbræðr reknir í gröfina djúpu.[3])

Írakonungr bað fylgja þeim til gestaskála[4]) Hrólfi, Ásmundi ok Grími. Vóru þeir leiddir út í garðinn ok reknir í eina 15 gröf ofan. Þyrftu þó margir at at ganga, áðr en þeir kómu Hrólfi konungi niðr.[5]) Var þat harðla langt niðr í jörð, ok ef þeir hefði konung at höfði niðrfært, þá hefði hann skjótt látit sitt líf, en hann kom niðr standandi. Var þar fýla mikil, fann Hrólfr konungr þat bratt, at þar vóru alt mannabúkar 20 undir. [Þeir Ásmundr vóru þar innfærðir[6]), tók konungr þá á lopti ok setti niðr hjá sér. Var þá færð yfir hella svá mikil, at varla gátu hrært tólf karlar; fóru menn Írakonungs þá í brott ok tóku á sik náðir. Þá mælti Hrólfr konungr til Ásmundar: þat ætla ek, fóstbróðir! at Hrólfr, nafni mínn, ætli 25 þér þessa sængina fyrr en hjá Ingibjörgu, dóttur sínni, eða hversu þickir þér hér fyrirbúit? Ásmundr kvez þar þickja stórliga ilt. Vilda ek gjarna[7]) hafa fallit fyrir vápnum[8]), heldr en vera í þessum ófagnaði; mun oss hér ætlat, at svelta til bana. Konungr mælti: mælumz vel um, fóstbróðir! er þat satt, 25 sem mælt er, at býsna skal til batnaðar; mun enn gott nöckut fyrirliggja. Stóðu þeir berfættir á mannabúkum í skyrtu ok línbrókum; var þar harðla myrkt.

---

1) herteknir *fH.* 2) fallit lið *ACfH.* 3) *Cap.-Überschrift nur in S.* 4) hestaskála *f.* 5) niðr í gröfina *H,* í gröfina *f.* 6) *Mit* Þeir Ásmundr vóru niðrfærðir *schliesst wieder ein Blatt in H, dann defect; mit* Þeir Ásmundr *schliesst A, mit* ok Grímr vóru ok niðrfærðir ... *beginnt I (die Fortsetzung von A, doch von anderer Hand).* 7) heldr *fI.* 8) vápnum vaskra manna *fI.*

### 38. Lífgjöf við Hrólf konung.[1]

Dóttir Írakonungs hafði sétt á bardagann um dag hinn ok sá, hversu hraustliga Hrólfr konungr barðiz ok hans menn, ok harmaði[2]) svá ágætan konung, at hann skyldi þar týna sínu lífi. Hón bygði eina skemmu með mörgum meyjum; hón var bæði vitr ok vinsæl ok at öllu kurteis. Hón átti eina skemmumey, þá er hón [trúði betr en öðrum[3]); sú hét Sigriðr ok var ríks mannz dóttir. Ok um kveldit, er lokit var bardaganum, kallar hón meyna til sín ok mælti: þú skalt fara til grafarinnar, þar sem Hrólfr konungr er með sínum mönnum, ok spyr hann, hvat hann kjósi helzt, [at ek veita hónum.[4]) [Hón fór, sem hón bað, ok kom at gröfinni[5]) ok spurði, [hvárt nöckut væri á lífi[6]) í gröfinni. Konungr svarar, at þar vóru á lífi þrír menn. Hón mælti: dóttir Írakonungs bað mik spyrja þik, Hrólfr konungr! [hvat þú vildir helzt, at hón veitti þér til hjálpar.[7]) Þat skal skjótt kjósa; ek vilda helzt, at hón næði sverði mínu ok mun þat auðkent í valnum [fyrir mikilleiks sakir.[8]) Geymda ek ok þess, þá er ek var tekinn, at ek kastaða á braut, sem lengst gat ek, í valinn, þar sem þyckvast lá. Mærin rann til skemmunnar ok sagði Ingibjörgu ok kvað þetta mundu vera allheimskan konung, svá illa sem hann var staddr, er hann kaus, þat er hónum lá ecki við með öllu. Konungsdóttir svarar: þat höfum vér þó heyrt, at Hrólfr konungr sé hverjum manni vitrari. Skaltu nú fara ok leita at sverðinu. Hón kvez víst eigi þora, [at kanna valinn ein um nættr[9]), vaða blóð ok ganga á mannabúkum; kvað slíkt[10]) ecki kvennaferðir. Hón bað hana fara, kvað ecki mundu til saka ok við hennar eggjan ferr hón ok leitar, ok þó heldr ódjarfliga. Finnr hón eigi ok kemr aptr ok segir, at dauðir

---

1) *Überschrift nur in S.* 2) harmaði mjök *CfI.* 3) *Mit* trúði betr en öllum öðrum *beginnt das Fragment D.* 4) þat er ek má veita hónum *fI,* af því, at vér viljum hónum með auðveld veita *C.* 5) Hón fór ok kallaði at gröfinni *f,* Hón ferr ok kallar at gröfinni *I.* 6) hvárt nöckut lifi þar *D,* hvárt þar lifði nöckurr inni *fI.* 7) hvat þér vildið helzt af henni þiggja yðr til hjálpar *D,* hvat þú vilt þiggja af hennar hendi yðr til hjálpar *f,* hvat þér kjósið helzt, þat er hón má veita yðr til hjálpar *I, ungenau C.* 8) fyrir vaxtar sakir ok mikilleiks *DI,* fyrir vaxtar sakir *Cf.* 9) at kanna valinn, fara til ein um nættr . . . *DI (meine Lesung von D ist jedoch durchaus nicht sicher).* 10) þat *DI, ungenau Cf.*

menn vili ganga at öllum megin. Ingibjörg kvað hana vera hrædda ok heimska, er hón óttaðiz dauða menn; [skal ek nú fara með þér.[1]) [Ganga nú báðar[2]) um valinn ok leita. Geck Ingibjörg, ferr it djarfligasta ok fann sverðit. Drógu þær þat
5 eptir sér til skemmunnar. Þá mælti hón enn til meyjarinnar, bað hana enn fara at finna Hrólf konung, [ok spyr hann, hvers hann þyrfi mest við, þat er ek má veita.[3]) Hón, mærin, fór enn ok sagði konungi, at þær höfðu nátt sverðinu. Hann kvað þá þegar vænt horfa. Mærin mælti: enn skylda ek spyrja
10 þik, [hvat yðr væri nú nauðsynligast af henni at þiggja, þat er hón hefði vald á.[4]) Konungr segir: gjarna viljum vér þiggja klæði nöckut, at breiða undir fætr oss. Er hér fúlt ok ilt at standa á mannabúkum. Sé ek, at í einum stað er loft undir hellunni, svá at þar má innkoma. Ferr mærin nú ok
15 segir Ingibjörgu þessa konungsins beizlu. Konungsdóttir segir: sýnir Hrólfr konungr þat, at hann er hraustari ok ágætari en aðrir konungar. Margir mundu bráðlátari til hjálparinnar, ef fá mætti, ok væri svá staddr, sem nú er Hrólfr konungr. Er þat ilt, ef slíkir hreystimenn skulu svá skjótt enda lífit. Tekr
20 hón nú þá alla hluti, er þeim vóru nauðsynligastir [at hafa[5]), dryck ok vist ok allzkonar klæði, smyrsl ok heilivág ok öll [lækningarlyf ok alt, þat[6]) sem þeir þyrftu at hafa. Ferr hón nú sjálf með meyjunni ok færðu þeim þessa hluti. Höfðu þær snæri ok létu síga ofan [í festum[7]) at þeim. [Þær færðu þeim
25 þannig[8]) sverðit Risanaut. Konungr varð því stórliga feginn ok þackaði þeim með fögrum orðum. Tók konungr þá ok batt sár sínna manna. Var Ásmundr sárr mjök, en Grímr meirr, þess er hvárrgi hafði banvænlig sár; konungr sjálfr var litt sárr. Tóku þeir nú ok bjögguz um ok klædduz ok eptir
30 þat átu þeir ok drucku. Þótti þeim nú þegar [vænt um sinn

1) *Mit* skal nú fara með þér *beginnt das 4. Blatt von E.* 2) *Nach* Þær ganga nú báðar *ist D unleserlich bis zum Beginne der 2. Seite.* 3) ok spyr hann, hvat hann vil nú helzt af oss þiggja *E,* ok spyr, hvers hann þarf mest við *f,* ok spyr Hrólf konung, hvat hann kýss helzt, þat er ek má veita hónum *I,* ok spyrja, hvers hann þyrfti nú mest, þat er ek má veita *C.* 4) *So CS,* hvat þú vildir helzt af henni þiggja, þat er hón hefði til *E,* hvat hann vill helzt *f,* Mærin mælti: hvat vili þér nú helzt kjósa ok seg mér *I.* 5) *Fehlt EfI, ganz ungenau C.* 6) lækningarlyf, ljós ok alt þat ... *EI,* ok allzkonar grös (*für* ok öll lækningarlyf *bis* hafa) *f.* 7) *Fehlt EI, ungenau Cf.* 8) þær drógu ok þangat *Ef.*

kost.[1]) [Verða þeir nú fyrst at vera i vandræðum sínum svá komnir, sem nú er sagt.[2])

### 39. Heitstrenging Þóris Járnskjaldar.[3])

Nú er þar at taka til, hvat framferr í Svíþjóð, í Danmörk ok Gautlandi. Þórir Járnskjöldr hafði stjórn ok landráð í Svíþjóðu eptir brautför Hrólfs konungs. Varð hann inn vinsælasti af öllum landzmönnum með ráði ok tilskipan dróttningar. Þeir Ketill ok Ingjaldr spurðu brautför Hrólfs konungs ok [eirði þeim þat illa[4]), er þeir höfðu eptirsetit.[5]) Liðu af þau misseri in næstu ok spurðiz ecki til Hrólfs konungs. Ok er váraði, er þess getit einn dag, at Þórir Járnskjöldr sat í höllinni í öndugi eptir vanda ok fátt manna hjá hónum. Dróttning geck þá í höllina ok hafði í hendi horn it góða. Hón geck innar fyrir Þóri ok bað hann drecka, kvað hann mundu þyrsta mjök. Þórir undraði, er hornit var innborit, því at þat hafði ecki séz, síðan Hrólfr konungr fór í brott. Svá undraði hann ok, er dróttning sjálf skenkti hónum, þvíat þat hafði hón aldri fyrr gert. En þat hafði atboriz, þá er Hrólfr konungr hafði á brott farit af Svíþjóð, en Þórir Járnskjöldr var eptir, varð hann stórliga reiðr ok kvez þess mannz bani verða skyldu, er segði hónum bana Hrólfs konungs Gautrekssonar. Þórir stóð upp í móti dróttningu ok fagnaði henni harðla vel, tók við Hringhorna[6]) ok drack.[7]) Ok er hann hafði mjök svá afdruckit, þá gall í horninu svá hátt, [sem þá er[8]) mikil tíðindi kómu eptir, eða ella vóru[9]) umliðin, fyrir orrustum stórum, eða ella lífláti göfugra manna ok fyrir margskonar ófriði ok hörðum atburðum. Þórir Járnskjöldr

---

1) vænkaz um hag sinn *fI, ungenau C, wie S auch E.* 2) Látum þá nú í vandræðum sínum svá komna, sem þeir eru *E; die ff. Worte, etwa 2, unleserlich, dann folgt:* nöckut um í Svíþjóð, Danmörk ok Gautlandi *und damit schliesst das Cap.* 3) *Cap.-Überschrift nur in S.* 4) undu stórliga illa *f,* undu stórilla *I.* 5) *Die ganze Erzählung von der* heitstrenging *des* Þórir, *nach* eptirsetit *bis* En eptir burtferð Þóris af Svíþjóð sendi Þornbjörg dróttning orð Katli ok Ingjaldi . . . *S. 66, fehlt in I; die Stelle bringt AC schon vor der Abreise Hrólfs aus England, also vor* Um várit stefndi Hrólfr konungr . . . *S. 58.* 6) hringhorni *f,* horninu *ACE.* 7) drack af *ACE.* 8) sem jafnan, þá er *E,* sem vant var fyrir stórtíðindum . . . *f,* sem þá var jafnan vant, er . . . *AC.* 9) *Fehlt S.*

kastaði horninu reiðuliga ok leit grimmliga til dróttningar ok mælti: segir þú mér líflát Hrólfs konungs Gautrekssonar? Eigi geri ek þat, en hitt heyri ek, at hornit segir þér einhver tíðindi, hvárt sem þau eru framkomin, eða horfir til. Hefir mik
5 ok svá dreymt, at Hrólfr konungr mun þurfa liðveizlu, áðr þetta sumar [er í brottu.[1]) Þórir sté þá upp á stock ok strengði þess heit, at hann skyldi ei fyrr mat eta en hann vissi, hvárt Hrólfr konungr væri lífs eða dauðr, ok eigi líf sitt hafa, nema hann gæti með nöckuru móti hefnt hans, ef þess
10 þyrfti við. Svá er sagt, at lítlu síðar hverfr Þórir Járnskjöldr í brott af Svíþjóð, svá at engi vissi, hvat af hónum varð.

## 40. Liðsafnaðr Þórbjargar dróttningar.[2])

Þórbjörg dróttning [gerði þá orð Katli Gautrekssyni ok Ingjaldi konungi á Danmörk[3]), bað þá samna liði ok leita at
15 Hrólfi konungi Gautrekssyni. Bregða þeir skjótt við ok bjóða út leiðangri af Danmörku ok af Gautlandi. Dróttning dró ok her saman af Svíþjóð, [tók hón skjöld ok sverð[4]) ok réz [í þessa ferð[5]) með Gautreki, syni[6]) sínum, er þá var tólf vetra gamall ok inn vænasti maðr, bæði mikill ok sterkr. Ok í
20 ákveðnum stað funduz [þau öll[7]) með miklu liði. Hafði dróttning ráð ok tilskipan um þeirra ferð; [var nú sem jafnan, at Ketill sýndi meira ákafa en forsjá eða fyrirleitni, vildi hann þá enn sem jafnan, at alt yrði senn um hans ferð.[8]) Látum þau nú búaz um með ráði ok hverfum þar frá at sinni.

---

1) sé úti *Ef.* 2) *Cap.-Überschrift nur in S.* 3) *Mit* gerði þá orð Katli ok Ingjaldi á Danmörk *beginnt die 2. lesbare Seite von D; vor* gerði *steht* -tning (*die letzte Silbe von* dróttning). 4) *Mit* tók hón þá skjöld ok sverð ... *setzt H wieder ein.* 5) til ferðar *DEfI.* 6) *Fehlt S* (*nur* sínum). 7) þau Ketill öll saman *DH*, þau öll saman *EI*, þau nú öll *f*, *ungenau C.* 8) *Conjectur;* var nú sem jafnan, at alt yrði senn, at Ketill sýndi meira ákafa en forsjá *S*, var enn sem jafnan, at Ketill sýndi meira ákafa en forsjá eða fyrirleitni, vildi hann þá enn sem jafnan, at alt yrði sem (*so!*) um hans ferð *D*, var enn svá sem jafnan, at Ketill sýndi mikinn ákafa, en minni forsjá eðr fyrirleitni, vildi hann þá sem jafnan, at alt yrði senn um hans ferð *H*, var nú sem jafnan, at Ketill sýndi meirr ákafa en forsjá eðr fyrirleitni um sína ferð *E*, var enn sem vant er, at Ketill sýndi mikinn ákafa, en minni forsjón *f*, var enn sem optar, at Ketill sýndi meirr ákafa en forsjá eðr fyrirleitni, vildi hann, at alt yrði senn um hans ferð *I*, *ungenau hier und im ff. C.*

## 41. Um tröll.[1])

Þat varð til tíðinda á Írlandi, þá er Hrólfr Írakonungr hafði [samankallat mikinn her[2]), [ok vissi fyrir kvámu Hrólfs konungs[3]) Gautrekssonar af fjölkyngi sínni — helt hann því liði saman nær[4]) hálfan mánuð, áðr Hrólfr konungr [kæmi — 5 at tröll mikit kom á landit fjarri konungs atsetunni, svá grimt ok ilt, at[5]) ecki vætta reisti rönd við. Drap þat niðr menn ok fénað, en brendi bæi ok engu vætta eirði þat; drap niðr hvert lifanda kykvendi ok gerði it mesta hervirki, en þat sem undan komz, flýði á merkr ok skóga. Ok þann sama morgin 10 í ár kom þetta tröll til hallar Írakonungs, er konungar höfðu áðr nýbariz með þeim atburðum, sem fyrr var sagt. Hafði Hrólfr Írakonungr druckit lengi um nóttina[6]) ok um morguninn, er menn vildu útganga, var tröllit komit í hallardyrr ok sat þar. Þóttiz engi sétt hafa þvílíkt[7]) tröll; þat hafði allvæpni 15 ok skjöld svá mikinn, at hann huldi hallardyrrin öll. Þetta tröll var svá grimmligt ok ógurligt, at engi þorði til útgöngu at leita ok svá mikil ógn fylgði[8]) þessu trölli[9]), at aftók allan vísdóm ok spáleik af Hrólfi konungi með megni ok bragðvísi, svá at engi varð hræddari en hann sjálfr við þenna atburð. 20 Þótti öllum mönnum þetta undr ok fádæmi ok in mestu býsn, at þeim skyldi slík ódæmi at hendi bera. Þat lét ok, sem þat mundi þá ok þá imhlaupa í höllina at þeim. Konungr bað engan svá djarfan, at gengi til mótz við þetta tröll, kvez vænta, at þat mundi brott leita af stundu. Sitja þar í þot um 25 dag hinn við flagðit þetta ok varð mönnum fátt til gamans.

---

1) *Cap.-Überschrift nur in S.* 2) samankallat óvígjan her *E*, samandregit allan sínn her *DfHI.* 3) ok vildi fyrirkoma Hrólfi konungi *fH.* 4) *Fehlt DEfHI.* 5) kom á landit fjarri konungs atsetunni tröll mikit, svá grimt ok ilt, at ... *also Auslassung S, gebessert nach DHI, ebenso wie diese auch E nur* kom *statt* kæmi, *ungenau f.* 6) *Nach* um nóttina *folgt in DfHI:* síðan sofnar hann ok alt hans lið. Um morguninn ...; *für* Hafði Hrólfr Írakonungr druckit ... *hat E:* Hafði Hrólfr konungr sofnat eptir mikla dryckju ok áðr átt mikit erfiði, ok um morguninn ... 7) meira *DfH,* jafnmikit *I, das Wort ist abgeschnitten vom Rande in E. In E stehen die Sätze in ff. Ordnung:* var tröllit komit í hallardyrrnar. Þetta tröll var svá mikit ok grimmligt, at aftók ... ok bragðvísi. Þat sat í hallardyrum ok stóð mönnum af því mikil ógn ok þóttuz menn ei hafa sétt *(ein Wort abgeschnitten)* tröll. Þat hafði allvæpni ok skjöld svá mikinn, at huldi hallar —; *mit* hallar — *schliesst Blatt 4 in E.* 8) stóð af *EfH.* 9) kykvendi *DfHI.*

## 42. Frá skemmumey.[1])

Skemmumær Ingibjargar konungsdóttur hafði gengit til hallarinnar, ok er hón kom nær höllinni, sá hón þetta it mikla tröll ok hljóp aptr til skemmunnar með ópi ok miklu gapi 5 ok gani. Konungsdóttir spurði, hví hón léti svá óvitrliga. Hón sagði, at svá hræðiligt tröll væri komit í hallardyrrin, at ecki mundi slíkt verða, [ok mun ætla, at drepa föður þínn ok alla hirðina með hónum.[2]) Ingibjörg svaraði: ætlar þú víst, at tröll mun vera, heldr einn mikill maðr? Mærin segir, at[3]) 10 ecki tröll mundi[4]) þvílíkt verða[5]) ok svá lætr þat grimmliga, sem þat muni engu eira, því er at hónum færi. Konungsdóttir segir: eigi mun tröll vera, þóat tröllzliga láti; þicki mér ok vera mega, at grimt sé í huginum ok þickiz [hingat eiga hefnda at leita.[6]) Vil ek nú senda þik til hallarinnar ok skaltu hafa 15 með þér mat ok bjóða tröllinu; má vera, at þat liniz þá heldr við menn ok sé eigi jafngrimt. Hón mælti: nú mælir þú ódæmi, at ek, [ein mær[7]), munda ganga at trölli því, er engir menn þora móti at sjá ok þar sem konungrinn, faðir þínn, [þorir eigi út at ganga[8]), slíkr kappi sem hann er, ok engi hans 20 manna ok muni heldr svelta til dauðs. Muntu vera heilluð af vætti[9]) þessi, er gengr [um ljósa daga[10]), ef þú vilt gefa því mat, er drepa vill konunginn, föður þínn. Ok þóat mærin talaði slíkt, þorði hón ecki í móti at gera hennar vilja; fór hón ok hafði disk á lófa sér ok horn mikit í hendi. Ok er 25 hón kom svá nær, at hón ætlaði, at hann mundi heyra, er hón kallaði, nam hón staðar ok tók til orða. Viltu mat tröll? Hón sá, at hann leit til hennar ok hræddiz hón stórliga mjök, hljóp aptr til skemmunnar með miklu ópi ok sagði, at tröllit vildi taka hana. Hón feldi [niðr matinn[11]) af diskinum ok 30 sló niðr dryckinum ok kvað slíkt fádæmi[12]), at senda sik í trölla hendr; eða fyrir hverja sök viltu bana mér? Eigi vilda ek, at þú fengir mein[13]) af mínum orðum[14]) ok ecki ilt muntu hér affá ok svá segir mér hugr um, at eigi mun þetta tröll

---

1) *Cap.-Überschrift nur in S.* 2) *Fehlt DfHI.* 3) *Fehlt DfHI.* 4) mun *DfI.* 5) *So HS,* vera *DfI.* 6) hingat eiga nöckurs at hefna *fH.* 7) ein lítil meyja *D,* lítil meyja *HI,* lítil mey *f.* 8) *Fehlt S.* 9) óvætti *DI.* 10) um hásumar ok ljósa daga *DfHI.* 11) mikit *S.* 12) undr ok ódæmi *DH,* mikil undr *I, ungenau f.* 13) bana eða mein *DI (die Stelle ist jedoch in D fast unleserlich).* 14) ráðum *fI.*

vera ok skaltu fara í annat sinn. Hón var treg til, en fór þó með slíku sem fyrr ok geck svá nær, at hón sá gerla tröllit. Hón mælti þá: viltu þiggja mat, it mikla tröll? Hann leit við henni ok ygldiz.[1]) Hón hljóp þá þegar í brott ok sagði konungsdóttur, at hón hefði þá gerla sétt tröllit.[2]) Ingibjörg segir: hversu leiz þér nú á hann, eða vildi hann nöckut til þín tala? Sigriðr segir: aldri hefi ek fyrr sétt tröll, en ei sýndiz mér þetta allilliligt, svá sem þat er mikit, ok svá er þat magrligt ok svangligt[3]), sem þat muni lengi soltit hafa. Undra ek þat, at þat etr ei ina dauða mennina, er liggja um alla borgina. [Má vera[4]), at sé blendingr ok sé eigi aðaltröll með öllu ok eigi varð ek jafnhrædd [sem fyrr.[5]) Ingibjörg mælti: hversu er tröllit búit? Mærin svarar: loðkápu hefir þat svá mikla, at hvergi sér fætr þess né hendr; [skjöld hefir þat svá mikinn[6]), at hylr hallardyrrnar; spjót hefir þat ógurliga mikit ok leggr þat[7]) inn með skildinum. Konungsdóttir mælti: nú mun ek leggja til ráð með þér. Þú skalt fara ok bjóða hónum matinn ok seg hónum, at lifir Hrólfr konungr Gautreksson; vit þá, hvat atskapiz.[8]) Hón ferr ok miklu djarfligast[9]), ok er hón kom mjök at hónum, rétti hón diskinn ok mælti: ettu mat þinn tröll! lifir Hrólfr Gautreksson, Svíakonungr.[10]) Ok er hann heyrði þat, leit hann blíðliga til meyjarinnar ok tók hendinni undan kápunni móti diskinum; [tók hann þegar ok drack.[11]) Sá hón, at hann mundi lystugr til matarins ok sýndiz henni hann þó ecki tröllzliga atfara. Hón sá, at rauð ermr tók fram undan kápunni ok digr gullhringr á hendinni, ok er hann var mettr, gengr hón í brott ok segir nú konungsdóttur, svá sem farit hafði. Líðr nú af nóttin ok komaz þeir ecki í brott or höllinni ok urðu allir ráðlausir fyrir jötni þessum. Um morgininn kom mærin með mat ok færði hónum ok hann seildiz [eptir diskinum[12]), [þrífr höndina meyjarinnar[13]) ok setr hana í kné sér. Hón kvað við hátt. Hann bað hana eigi óttaz, ok seg mér, hvar er Hrólfr Gautreksson, eða hverr

---

1) ygldiz á hana *DfHI.* 2) *So fS,* tröllkarlinn *DHI.* 3) svangt *DI.* 4) Má vera, junfrú! *DfHI.* 5) sem áðr *DfH.* 6) *Mit* skjöld hefir þat svá mikinn *schliesst das Fragment D.* 7) *So S,* því *die andern.* 8) atskipaz *fI.* 9) djarfligar *fHI.* 10) *Fehlt fHI.* 11) hann át ok drack *fHI.* 12) í móti diskinum *fHI.* 13) þrífr hann með hönd meyjarinnar *HI,* þreifar um hönd henni *f.*

hefir hónum líf gefit? [Hón segir nú, svá sem gengit hefir um ferð þeirra[1]) ok svá sem þá var komit [þeirra ráði.[2]) Hann mælti: nú skaltu segja konungsdóttur, at ek mun þar koma í nótt ok finna hana; vil ek, at vit talimz við nöckut. Lét hann hana þá lausa; hleypr hón nú til skemmunnar ok segir Ingibjörgu, at nú hefir tröllit tekit hana ok kvað þat mart talat hafa við sik; ok ætlar þat, at finna þik í nótt. Ingibjörg kvað þat vel vera, kvez væna, at sá einn mundi vera, at ecki mundi hón óttaz þurfa. Ok um nóttina kemr hann til skemmunnar. Er svá sagt, at [konungsdóttur var ecki um felmt[3]), þóat sæi þetta tröll. Tóku þau tal með sér; spurði hón, hvat hann ætlaði [til ráðs[4]) at taka. Hann kvez ecki annat ætla, en svelta konunginn inni með allri hirð sínni; en með því, segir hann, at Hrólfr konungr Gautreksson er á lífi ok þér hafið hólpit[5]) hónum, þá vil ek nú fara fram yðrum ráðum. Hón segir: önnur ráð eru mér heyriligri til at leggja, en faðir mínn sé sveltr inni[6]) sem refr í skor, eða melracki í gröf.[7]) Hefir mik svá dreymt, at hér mundi bratt eigi missa ófriðar. Er þat ætlan mín, at enn komi hónum fleiri dugnaðarmenn ok mun eigi langt at bíða. Þá mælti Þórir: til þess er mér annast, at finna Hrólf konung Gautreksson, fóstra mínn. Hón kvez þat vel mega veita hónum, at hann mundi talat fá við Hrólf konung, [en kvað þeim ecki mega á brott koma, útan með mannfjölda.[8]) Eptir þat fóru þau til grafarinnar, ok er Þórir sá þá miklu hellu, er þeir vóru læstir með, [þrífr hann[9]) til með miklu afli ok kastar brott steininum marga faðma á völlinn. Eptir þat lét hann síga inn festi ok dró þá upp alla félaga. Varð þar fagnafundr mikill, þóttiz Þórir þá or helju heimt hafa. Fara öll saman til skemmunnar ok drucku þar glaðir ok kátir. Spurði Hrólfr konungr þá, [hvat til ráðs var.[10]) Ásmundr kvað þá hægt til ráða; er þat fyrst til, at bera eld

---

1) Mærin sagði, svá sem var um þeirra hag *fH.* 2) þeirra í milli *H,* þeirra máli *I, das Wort nach* komit *nicht lesbar in f.* 3) konungsdóttur varð ecki skelf við *H,* konungsdóttir varð ecki hrædd *f,* konungsdóttir brá sér ecki við *I.* 4) til bragðs *fH,* til bragða *I.* 5) borgit *H,* en þú hefir borit hónum mat (*für* ok þér hafið hólpit hónum) *f.* 6) *Fehlt fH.* 7) greni *fHI.* 8) en kvað hann þó ecki mega burt komaz, nema með mannfjölda *fH.* 9) *Nur* þrífr *ohne* hann *S, in s steht* hann. 10) hvat þá skyldi til ráðs taka *fHI.*

at höllinni ok brenna inni Írakonung með sínu liði. Konungsdóttir geck þá at ok mælti: þess vil ek biðja þik, Hrólfr konungr! at þú gefir föður mínum grið, þóat svá beri til, at þér eigið á hónum vald. Konungr kvez því gjarna játa vilja [fyrir hennar kurteisi ok fullkomna dygð þeim veitta[1]), kvað hana þess vera verðuga, [at hón fengi þessa bæn.[2])

### 43. Heimanferð konunga Ketils ok Ingjaldz.[3])

Nú er at segja frá ferð konunganna Ketils ok Ingjaldz ok dróttningar. Þau bjöggu her sínn vel[4]) ok kurteisliga ok höfðu LX skipa ok öll velbúin, bæði at mönnum ok vápnum. Ok at búnu liði sínu heldu þeir í haf ok gaf stórliga vel, tókz þeim alt it greiðasta, koma við Irland þessa sömu nótt, sem Hrólfr konungr var leystr or þeirri dýflizu, sem hann var ísettr ok hann hafði íverit ok ætlaðr til dauða af Hrólfi Írakonungi, er þá sat í höll sínni með fimm hundruð manna ok þorði eigi út at ganga fyrir því mikla trölli, er þá var komit [til hallarinnar[5]) ok engi hans manna. Ok er þessir konungar kómu þar við land, sá þeir skipastól[6]) mikinn ok kendu [mörg, at[7]) átt hafði Hrólfr Gautreksson; var þar engi lifandi maðr á þeim skipum. Brá þeim mjök við þessi tíðindi ok eggjuðuz mjök til hefndar eptir Hrólf konung. Gengu þegar á land með allan herinn ok fóru með miklum gný ok ákafa til hallarinnar. Sá þeir skjótt þau tíðindi. er þar höfðu gerz[8]); lágu þar dauðir menn um alla borgina, bæði nær ok fjarri, varð þar margr maðr stórliga[9]) hryggr, [en vísvitandi dauða[10]) Hrólfs konungs. Ingjaldr konungr spyrr, hvat til ráðs skyli taka. Ketill segir: ef[11]) mínum ráðum skal nú fara fram, þá[12]) vil ek láta bera eld at höllinni ok at hverju þorpi ok skemmu ok brenna alt upp, þat sem fyrirverðr. Dróttningin segir: ecki er þetta mitt ráð, at svá sé gert. Mun hér þat eitt fjölmenni fyrir, at vér

1) fyrir hennar hæversku ok dygð, er hón hefði hónum veitt *fHI*. 2) at þiggja þessa bæn *fHI*. 3) *Cap.-Überschrift so nur in S, in H die Überschrift* Orrosta. 4) *Nach* Þau bjöggu her sínn vel *hat fH:* glöddu sik nú með bjór ok víni; þau höfðu LX skipa . . . 5) í hallardyrrnar *fH, fehlt I.* 6) skipafjölda *fH.* 7) mörg af þeim, er *fHI.* 8) orðit *fHI.* 9) *Fehlt fHI.* 10) at vísd. (*so geschrieben;* vísdauðan?) þóttuz vita Hrólf konung *H,* er vísan þóttiz vita dauða Hrólfs konungs *f, fehlt I; in Ss steht* dauði, *nicht* dauða. 11) *Fehlt fHI.* 12) *Fehlt fHI.*

munum hafa nógan liðskost í mót. Þicki mér ván, at margr Írakonungs maðr hafi látit sitt líf, áðr en þeir Hrólfr konungr hafi sigraðir verit; má vera ok, at nöckurir þeir hafi hér herbergi, at vér vildim eigi mein gera heldr en sjálfum oss;
5 megum vér þat sjá, at þessi bardagi hefir fyrir skömmu orðit, er hverr liggr [þar, sem fallit hefir[1]), ok hvergi er rutt né hreinsat um borgina; vitum vér ógerla, með hverjum tíðindum þessi bardagi hefir orðit. Ketill kvez þá ráða vilja, vóru þeir ok fleiri, er eigi vildu fresta atgöngu. Var þá þegar eldr bor-
10 inn at höllinni ok öllum herbergjum, var þá óp mikit ok brak.

44.[2]) Svá er sagt, at þeir Hrólfr konungr sátu við dryck ok vóru þá glaðir.[3]) Heyrðu þeir út gný mikinn ok vápnabrak ok því næst var eldr borinn at þessi skemmu, er þeir sátu inni, ok svá bar til, at dróttningin sjálf [réð fyrir þessu liði[4]) ok
15 Gautrekr, son hennar. Þá mælti Hrólfr konungr: þat ætla ek, Þórir félagi! at skjöldr þinn hafi nú litla vörn veitt konungsmönnum; munu þeir nú útkomnir með sínu liði, látum þá nú kenna vápna[5]) várra, áðr en vér sém yfirkomnir. Hljópu þá upp ok vápnuðuz. Þá mælti konungsdóttir: sjá svá fyrir,
20 Hrólfr konungr! í útgöngu þinni, at [þar eru[6]) eigi Írakonungs menn, heldr þínir vinir ok frændr ok efnið nú vel heit yðr við oss. Þeir tóku stock einn mikinn[7]) ok báru út á skemmuhurðina ok hraut hón þegar í sundr. Gengu þeir Hrólfr konungr þá út, kendi hann skjótt Gauta ok Svía. Maðr stóð
25 fyrir hónum með allvæpni ok var inn vígligasti. Konungr tók í hjálminn ok [hnytti af hónum[8]), kendi hann skjótt, at þar var Þórbjörg[9]), dróttning hans. Þá mælti Hrólfr konungr: seint er at tryggva slíkar konur, sem þú ert, vilið nú brenna oss inni, sem melracka í greni. Hón svarar: [þá máttu nú
30 framarr virða, Hrólfr konungs! at vér gerim þetta eigi af illvilja við yðr[10]) ok eigum nú öll saman sigri at hrósa, er þér eruð

1) sem komit er *fH, fehlt I.* 2) *Keine Cap.-Überschrift in S, in H:* Hér er tekinn Írakonungr. 3) allkátir *H,* allkátir ok glaðir *f,* glaðir ok kátir *I.* 4) var þar fyrir *fH,* var fyrir því liðinu *I.* 5) *Fehlt S nur* várra. 6) þetta eru *fHI, ich lese* þar *in S, das Wort ist aber undeutlich wie die ganze Stelle von* at þar *bis* frændr. 7) *Fehlt fHI.* 8) hnekti af aptr *HI, fehlt in f.* 9) *in H* Þorb *gekürzt, also* Þornbjörg *wie in AC?* 10) virða máttu annan veg, ef þú vilt, þvíat vér gerðum þetta ei at illvilja við þér *H,* virða mættir þú betr, ef þú vildir, Hrólfr konungr! því vér gerðum þetta ecki af illvilja *I, ungenau f.*

[allir heilir[1]), sem mestu varðar af várum mönnum. Takið nú þat ráð, sem oss er öllum heyriligast ok bezt gegnir. Konungr bað slöckva eldana, sem skjótast. Fréttiz þetta nú skjótt [um herinn[2]) at Hrólfr konungr var heill ok ósakaðr[3]) ok svá Ásmundr, ok Þórir Járnskjöldr var þar kominn; varð nú feginleikr allra liðsmanna ok höfðingja. Varð þeim lítit fyrir, at slöckva eldana, höfðu ok óvíða kveyktir verit. En þegar Írakonungr vissi, at ófriðr var atkominn, [en tröllit sáz hvergi[4]), þá hljópu þeir upp[5]) sem hraustiligast ok vörðu höllina. [Ketill Gautreksson[6]) var þar til atsóknar, bæði með eldi ok vápnum[7]); varð þar nöckut[8]) mannfall, áðr en Hrólfr konungr kom til. Bað hann þá slöckva eldana, en geck at með kappi ok styrk, en lét höndum taka Hrólf Írakonung, en drepa þá alla, [er fyrir vildu standa.[9]) Ok at þessum verkum unnum þá mælti Hrólfr Gautreksson: nú er svá [með vexti[10]), nafni! segir hann, at fyrir fám nóttum áttuð þér vald á mér ok lífi mínu ok höfðuð ætlat oss [harðan dauða[11]), ef ei hefði betraz várt mál; nú hafa þau umskipti orðit, at nú eigum vér vald á yðr ok öllu, því er yðr varðar. Munuð þér nú hljóta at þola þann dóm, er vér dæmum; eða vilið þér nú unna Ásmundi, fóstbróður mínum, syni Skotakonungs, mægða við yðr ok vinna þat þér ok þínum mönnum til lífs? Konungr kvez því játa vilja. Katli Gautrekssyni þótti þetta undarligt ok öllum mönnum [líkaði þetta illa[12]), er Hrólf Írakonung skyldi eigi af lífi taka, svá sem hann hafði Hrólfi konungi fyrirkomit ok öllu liði hans orðit at skaða; höfðu þeir þar látit marga góða drengi ok mikilsháttar menn. Hann kvez þetta mest gera [fyrir bæn ok verðleika Ingibjargar[13]), konungsdóttur, kvað hana vel hafa sér hólpit ok þeim, en kvað konung einskis frá sér verðan góðs, kvað hann vera illan konung ok stelvísan[14]), kvez þat mest hafa hlotit[15]) af Þóri Járnskildi[16]), fóstra sínum, er Hrólfr

---

1) *So HI, die ganze Stelle fehlt f, nur* allir *S.* 2) um allan herinn *fH.* 3) óskaðaðr *fH.* 4) en tröllit var bort ok sat ecki í hallardyrunum *fH,* ok tröllit var ecki í hallardyrunum *I.* 5) út *fHI.* 6) Hrólfr Gautreksson *Ss,* Ketill konungr *HI,* Ketill Kregða *f.* 7) járnum *fHI.* 8) mikit *fH.* 9) er fyrir hónum stóðu *fH.* 10) komit *fHI.* 11) heldr dauða en líf *H,* heldr helina en líf *f,* heldr harðan dauða *I.* 12) *Fehlt fHI.* 13) fyrir sakir Ingibjargar *H,* fyrir Ingibjörgu *f,* vegna konungsdóttur *I.* 14) prettvísan *fHI.* 15) hlotiz *fHI.* 16) Járnskjöld *S.*

konungr kom [engri fjölkyngi við með svikum ok prettum[1]), sem hann var vanr, heldr feck hann af [skömm ok svívirðing[2]), sem makligt var. Eptir þetta greiðir Hrólfr konungr út [meyjarmundinn svá mikinn[3]), sem Hrólfr Gautreksson kvað á í gulli
5 ok silfri ok allzkonar dýrgripum, þvíat Hrólfr konungr vildi brott sem skjótast af Írlandi ok eigi unna konungi þess, at hann veitti brúðlaup dóttur sinni. Gerðu þeir hann sem hrakligastan, þess er hann helt lífi[4]), en tóku slíkt af hans gózi[5]), sem þeir vildu[6]), heldu síðan á brott af Írlandi með miklum
10 fjárhlut. Höfðu þeir ok öll þau skip, er þeir máttu meðkomaz, varð nú mikil gleði í þeirra liði; höfðu nátt konungi sinum ok höfðingja þeim, er þeir unnu harðla[7]) mikit ok þeir hugðu allir áðr dauðan vera ok höfðu fengit harðla fríða konu ok ágæta, sem Ingibjörg var, ok þá menn með henni, sem hón
15 fýstiz at hafa með sér. Sigldu fyrst til Englandz; tók Ella konungr [harðla vel[8]) við þeim, varð ok vel við þann mannskaða, er hann hafði fengit á Írlandi. Eptir þat sendir Hrólfr konungr heim lið sitt, setti þar fyrir þrjá höfðingja; hét einn Aki ok var danskr maðr, annarr Björn[9]) ok var gauzkr at ætt,
20 þriði hét Brynjólfr ok var sá ættaðr á Svíþjóð ok átti þar stóreignir. Vóru þetta inir ríkustu[10]) menn ok konunginum nir kærustu; [vóru þeir settir fyrir ríkjunum[11]), þar til er konungar kæmi til. Konungarnir höfðu eptir tólf skip ok öll stór ok velskipuð með inu fríðasta liði á. Sátu þeir mjök lengi á
25 Englandi. Grímr Þórkelsson feck Gyðu, systur Þórðar, er fyrr gátum vér, með ráði Hrólfs konungs; [bjóz Grímr til ferðar[12]) með Hrólfi konungi.[13]) Ella konungr beiddi Hrólf konung, at Þórir Járnsjöldr mundi eptir vera þeim til landvarnar ok styrks, ok at Þóri viljanda[14]) lét konungr þetta eptir bæn Ellu kon-

---

1) engu illu fram með sínni fjölkyngi *HI*, engu illu til vegar komit með sínni fjölkyngi *f*. 2) skömm ok skaða með svívirðing *H*, skömm ok skaða *fI*. 3) svá mikit fé *fHI*. 4) lífi ok limum ok ríki sínu *H*, lífinu ok limunum *f*. 5) góz *S*. 6) *Nach* sem þeir vildu *hat fHI:* ok kunnu hónum enga þöck fyrir (*in I fehlt* sem þeir vildu). 7) stórliga *HI, die Stelle entstellt in f*. 8) með allri blíðu *fH*. 9) *Unleserlich S*, Búi *s*. 10) hraustustu *fH*. 11) vóru þeir landvarnarmenn *H*, skyldu þeir vera landvarnarmenn *f*, skyldu þeir hafa landvörn ok stjórn fyrir ríkjunum *I*. 12) vildi Grímr fara *fHI*. 13) *Nach* með Hrólfi konungi *hat H:* ok kvaz aldri vildu við hann skilja, *f hat:* ok aldri við hann skilja, *I hat:* ok skiljaz ecki við hann. 14) viljandi *Ss*.

ungs. Þórir feck Sigríðar þeirrar sömu meyjar, er fylgt hafði Ingibjörg konungsdóttur af Írlandi[1]); hón var ríks mannz dóttir ok inn bezti kostr. Gerðiz Þórir inn ríkasti maðr á Englandi ok þótti vera inn mesti kappi ok hreystimaðr. En af ferð hans til Írlandz kunnum vér fátt at segja, eða heit- 5 strenging hans, hvárt hann hefir haldit hana eða eigi. Lifa menn jafnan lengi við þá hluti, þóat eigi [megi matr heita með öllu.[2]) [Skildi þar svá með þeim Hrólfi konungi, at Þórir Járnskjöldr er nú or sögunni ok þótti vera in bezti drengr.[3])

## 45. Brottför Hrólfs konungs af Englandi ok lát Ólafs Skotakonungs.[4]) 10

Ok eptir þetta ferr[5]) Hrólfr konungr brott af Englandi með sínu liði. Skiptuz þeir Ella konungr gjöfum við, en skiljaz inir beztu vinir. Heldu konungar þaðan til Skotlandz, ok þegar Ólafr konungr spurði kvámu Hrólfs konungs ok Ás- 15 mundar, sonar síns, ok þeirra allra saman fóstbræðra með miklu liði, gerir hann þegar ina ágætustu veizlu í móti þeim ok bauð til sín Hrólfi konungi með öllu liði sínu. Geck konungr sjálfr í móti þeim með sæmd ok inni mestu blíðu ok veitti allkappsamliga ok með ráði Hrólfs konungs hefr[6]) Ingj- 20 aldr bónorð sitt ok biðr dóttur Ólafs Skotakonungs sér til handa. Var þetta mál auðsótt[7]) með flutningi Ásmundar ok atfylgju Hrólfs konungs ok at þessi veizlu svá búinni drucku þeir brúðkaup sín báðir, Ingjaldr til Margrétar, dóttur Ólafs konungs, en Ásmundr til Ingibjargar, dóttur Írakonungs. Var 25 þar in mesta gleði ok fagnaðr, skemtu sér nú glaðir ok kátir útan angr ok ecka. Ok at lokinni veizlunni vistar Ólafr konungr lið Hrólfs konungs þar á Skotlandi, en þessir höfðingjar

1) *Nach* konungsdóttur af Írlandi *hat fH:* ok færði matinn til hallarinnar; var hón ríks mannz ... 2) má mat kalla með öllu, sem eru grös mörg *H,* má mat kalla með öllu, sem eru grös mörg ok rætr *I, fehlt in f, wo auf* eða ei *sofort* ok skildi Þórir ... *folgt.* 3) Skildi Þórir þar við Hrólf konung ok er Þórir Járnskjöldr or þessi sögu *H,* Skildi Þórir við Hrólf konung ok er hann or sögunni ok fór vel fátækr maðr *(so!) f,* Skildu þeir Hrólfr konungr Gautreksson með blíðu ok Þórir, ok er hann or þessi sögu *I.* 4) *Überschrift so nur in S; H hat als Überschrift:* Hér siglir Hrólfr konungr heim. 5) býz *fHI.* 6) vekr *H,* vakti *f.* 7) auðsótt við konunginn *fHI.*

sitja þar um vetrinn með Ólafi konungi með miklum prís ok æru ok undu allir saman stórliga vel. Ok þann sama vetr andaðiz Ólafr Skotakonungr; var hann þá mjök gamlaðr ok þótti verit hafa ágætr[1]) höfðingi. Tók Ásmundr þá ríki ok 5 konungdóm á Skotlandi ok gerðiz góðr höfðingi ok vinsæll. Ok at sumarmagni bjöggu konungar skip sín ok lið; dvaldiz Ásmundr þá eptir. Hann bauð Gautreki, syni Hrólfs konungs, [með sér at vera[2]) ok þat þecktiz[3]) hann með ráði konungsins, feðr síns. Var hann lengi síðan með Ásmundi konungi, feck 10 hann hónum skip ok lagðiz hann í hernað ok varð inn frægsti maðr. Höfum vér þat heyrt, at hann hafi herjat til Írlandz með styrk Ásmundar, Skotakonungs, ok fengit þar ríki af Hrólfi Írakonungi, þá er hann gerðiz gamlaðr. Þóttiz Ásmundr þar eiga vald á með því, at Ingibjörg var einberni Hrólfs kon- 15 ungs; unni hann ok Gautreki harðla vel, at njóta þessa ríkis fyrir vináttu sakir ok fóstbræðralags þeirra Hrólfs konungs Gautrekssonar. Þá er Hrólfr konungr var brott búinn af Skotlandi með öllu liði sínu, gaf Ásmundr hónum [góðar gjafar[4]) [at skilnaði ok vóru síðan inir beztu vinir. En þeir allir 20 fóstbræðr sigldu heim til Svíþjóðar[5]) með heilu ok höldnu; varð alt fólk stórliga fegit [þeirra heimkvámu[6]) ok fögnuðu sínum konungi. Dvölduz þeir Ketill ok Ingjaldr þá litla hríð [í Svíþjóð[7]), fór Ingjaldr heim til Danmerkr ok settiz í ríki sitt ok þótti góðr konungr ok ágætr. Var hann alla stund 25 inn mesti vinr Hrólfs konungs, hafði hann af hónum ok hans ríki allan þann styrk, sem hann þurfti. Konungr fór heim til Gautlandz ok sat þar um hríð. Hrólfr konungr settiz í Svíþjóð ok létti inum mesta hernaði. Óx þar upp Eiríkr, sonr hans, ok gerðiz inn mesti afburðarmaðr[8]) bæði á vöxt ok vænleik 30 ok alla atgervi, ok er hann röskvaðiz, feck Hrólfr konungr hónum herskip ok menn til; tók hann þá drekann Grímarsnaut

---

1) inn ágætasti *fHI.* 2) at vera eptir með sér *fHI.* 3) þiggr *fH.* 4) góðar gjafar ok ágætar *H,* margar góðar gjafir *f,* ágætar gjafir *I.* 5) ok skildu með inni mestu blíðu ok vináttu allir fóstbræðr. Sigldi Hrólfr konungr síðan heim til Svíþjóðar *H,* ok skildu með inni mestu blíðu ok þeir allir fóstbræðr ok sigla nú heim til Svíþjóðar *f,* ok skildu með inni mestu blíðu ok vóru ágætir vinir jafnan síðan. Kom Hrólfr konungr heim í Svíþjóð *I.* 6) hónum *HI,* þeim *f.* 7) í Danmörk *fH.* 8) afbragðsmaðr *fH.*

ok allan þann herskap, sem átt hafði Hrólfr konungr, faðir hans. Lagðiz Eirikr í hernað með miklum styrk ok harðfengi, [gerðiz hann frægr maðr ok mikilsháttar.[1])

## 46. Lát Hálfdanar.[2])

Þeir atburðir urðu í Garðaríki, at Hálfdan konungr andaðiz, [ok eptir þat tóku þeir ríki, er ecki vóru tilkomnir.[3]) Þat spurðu þeir Hrólfr konungr ok Ketill, bróðir hans; fóru þeir austr þangat með her sínn, tóku þeir ríkit undir sik, en ráku þá í brott, sem stjórnat höfðu, drápu suma, friðuðu þar alt ok frelsuðu. Eptir þat gerðiz Ketill þar höfðingi yfir, [var hann mjök ágætr af hraustleik ok var þó vinsæll ok inn vaskasti[4]) ok hafði it mesta traust af Hrólfi konungi, bróður sínum. Hrólfr konungr tók þá Gautland undir sik ok skipaði ok sat þar lengi Grímr Þórkelsson með ráði Hrólfs konungs ok gerðiz inn vaskasti maðr ok skildi aldri vináttu við Hrólf konung. Hrólfr konungr Gautreksson sat í Svíþjóð með miklum sóma ok stýrði sínu ríki með mikilli sæmd ok kurteisi ok þótti fyrirkonungr allra annarra í þann tíma á norðrlöndum fyrir allra hluta sakir vitrleiks ok annars. Var hann kallaðr[5]) allra konunga örlátastr ok hafði þat af Gautreki konungi, feðr sínum. Treystuz ok engir konungar, víkingar eða ríkismenn á hans ríki at herja; var öllum kunnigt, at hann var hverjum konungi ríkari ok frægri ok engir báru af hónum sigr. Vinguðuz af því við hann margir, at þeir væntu sér þar af friðar ok frelsis ok góðvilja af Hrólfi konungi, heldr en ágangs[6]) eða ófriðar, sem margir urðu at þola. Báru engir traust á til móti hónum at [standa eða[7]) stríða. Varð Hrólfr konungr gamall maðr ok drap[8]) hann sótt til bana. Tók Eirikr, son

---

1) gerðiz nú ágætr maðr ok víðfrægr um lönd *H*, gerðiz hann mikill ok víðfrægr um öll lönd *f*, gerðiz hann ágætr maðr ok víðfrægr *I*. 2) *Überschrift so nur in S;* Hér tekr konungr ríki *H*. 3) *Fehlt S*. 4) ok var meirr ágætr af hraustleik, framgöngu ok ofrkappi ok ákefð en viti ok forsjá ok var þó vinsæll *HI*, ok var mjök ágætr at hraustleik ok framgöngu með ofrkappi *f*. 5) *Fehlt fH, die ganze Stelle entstellt in I*. 6) *So HI*, annars *S; in f steht:* óskuðu sér heldr friðar ok vinfengis af hónum en ófriðar. Varð Gautrekr konungr *(so!)*, sonr hans, inn ríkasti ok segja fróðar bækr, þat þessi saga sé sönn ok lýkr hér nú þessarri sögu *(Schluss)*. 7) *Fehlt HI*. 8) *So IS*, tók *H*.

hans, konungdóm eptir hann með öllu því ríki, er átt hafði faðir hans. Varð Eirikr gamall maðr ok inn vaskasti ok frægsti konungr ok at mörgu líkr Hrólfi konungi, feðr sínum. Svá segja fornir menn ok fróðir, at saga sjá sé sönn, þóat hón
5 hafi eigi [á tabulum[1]) skrifuð verit, [eða á steinum klöppuð[2]), ok hafa menn þó í minni lagt, ok mörg sé þau hreystiverk Hrólfs konungs Gautrekssonar, er eigi standa í þessi sögu; þrýtr fyrr seinan penna en hans snildarverk. Má af því samanfara um þessa sögu ok margar aðrar, þóat eigi [segi allir[3])
10 einn veg, at margr er maðrinn fróðr ok ferr víða, heyrir þat annarr, er annarr heyrir eigi, ok má þó hvárttveggja satt vera, ef hvárrgi hefir gersamliga atkomiz. Undriz menn þat eigi, þóat sumir menn hafi verit ágætari at afli ok vexti en nú. Hefir þat satt verit, at þeir hafa skamt átt [til risa[4]) at telja,
15 en nú er fólkit jafnara, er blandaz ættirnar. Er þat trúligt, at smáir menn hafi margir hnigit [fyrir þeim[5]), er vápn þeirra hafa svá þung verit, at einn óstyrkr maðr hefir varla [eða eigi[6]) fengit létt[7]) af jörðu; má þá marka, hvárt nöckut smámenni mun þat staðiz hafa, er þeir hjöggu af miklum afli með
20 bitrligum eggjum til þeirra, er þó lamdiz alt fyrir, þóat ecki [biti á.[8]) Þicki mér ok þeim bezt sama at at finna, er tilfærr er um at bæta; en hvárt sem satt er, eða eigi, þá hafi sá gaman af, er þat má afverða, en hinn leiti annars, þess er meira gaman verðr at. Gleði Guð þann er ritaði ok sagði ok
25 alla þá er tilhlýða, ok lúkum hér sögu Hrólfs konungs Gautrekssonar[9]), Gautasonar.

---

1) í tabula *HI.* 2) *Fehlt HI.* 3) *So H,* segja allir *I,* sé allar *S.* 4) til risanna sínnar ættar *HI.* 5) fyrir stórum mönnum þeim *H,* fyrir höggum stórmennis *I.* 6) *Fehlt HI.* 7) lypt *HI.* 8) biti vápnit *HI.* 9) *Nach* Gautrekssonar *hat H:* með skynsamra manna skipan ok góðum endalokum.

## Hér hefr upp sögu Ásmundar, er kallaðr er kappabani.

1. Buðli er konungr nefndr; hann réð fyrir Svíþjóðu, ríkr ok ágætr. Þat var háttr hans, at elska mjök smiðu, þá er hann feck hagasta ok hónum gerði gersimar. Hann átti dróttningu ok dóttur, er Hildr hét. Þat varð þar til tíðinda, 5 at dróttning andaðiz ok var konungr kvánlauss. Þess er getit, at eitt kveld kómu tveir menn til konungs ok gengu fyrir hann með kveðju. Konungr spurði, hverir þeir væri, en annarr nefndiz Olíus, en annarr Alíus ok vildim vit hér vetrvist þiggja. Hann spurði, ef þeir væri hagleiksmenn nöckurir eða 10 búnir við íþróttum. Þeir kváðuz kunna at gera hagliga hvern hlut, þann er smíða skyldi. Konungr vísaði þeim til sætis ok bað þá þar vera. Í þenna tíma var með konungi boð nöckut. En um kveldit kómu í höllina smiðir konungs ok sýndu hónum smíðit, gull eðr vápn. Svá gerðu þeir ávalt, ef menn kómu 15 þangat, konungi til frægðar. Allir menn lofuðu smíði þeirra nema gestir; þeir [464] ræddu fátt um. Knífr einn var í því smíði vandaðr. Þetta var sagt konungi ok kvez hann ætla, at þeir mundi eigi betr smíða. Hann kallar þá til sín ok mælti: hví eruð þit svá tregir til at lofa þat smíði, er hér er 20 framborit, eðr kunnið þit betr at gera. Þeir kváðu konung þat reyna mega, ef hann vildi, at smíði þetta mundi eigi mikils vert hjá því. Konungr bað þá gera þá smíð, er til afbragðs mætiz[1]), ef þit vilið eigi vera falsarar. Þeir kváðuz bratt munu reyna, at þessi smíð er lítils verð ok eigi góð. Þeir settu 25 knífinn í rönd borðzins fyrir konung ok lá hjá þegar eggin. Þeir báðu konung þar taka við gersimi sínni, en kváðuz freista mundu, at gera annann kníf. Konungr bað þá svá gera ok síðan gerðu þeir kníf einn ok færðu konungi. Hann brá á kanp sér ok tók af kanpinn ok skinnit, svá at í holdi nam 30 staðar. Konungr mælti: þat mun satt vera, at it munuð hagir

1) *So in S, nicht* mettiz *wie FAS. II 464.*

menn ok nú skuluð it gera mér gullhring, ok svá gerðu þeir ok færðu konungi. Hann leit á ok mælti: þat er rétt sagt, at ek hefi ei sétt meiri gersimi í einum gullhring, ok svá mæltu allir, er sá. Konungr kvað slíkt tiginna manna þjónustumenn ok síðan mælti hann: nú skuluð it gera mér tvau sverð, þau er eigi beri minna af öðru smíði en þessi smíð yckur, ok þeim sé hvergi þess til höggvit, er þau bíti eigi. Olíus kvez þat eigi vilja ok léz eigi örvænt þickja, at nöckut mikit mundi áliggja, ef þeir [465] gerði nauðgir, ok kvað til hófs bazt at búa. Konungr kvað þá gera skyldu, hvárt er þeir gerði nauðgir eðr eigi. Síðan setjaz þeir til smíðar ok gerðu tvau sverð, sérhvárr þeirra, ok gengu síðan fyrir konung ok sýndu hónum sverðin. Konungr leit á ok sýnduz hónum vænlig; eða hverir fylgja kostir? Olíus segir, hann kvað, hann því hvergi mundu til höggva, at þat mundi eigi bíta ok hygg ek á því munu vera enga annmarka. Konungr segir: þá er gott ok verðum vér at reyna, hversu staðgott væri, ok skaut oddinum í öndugissúlu ok lagðiz litt sverðit ok síðan reisti hann þat í glugg einum. Smiðrinn kvað þat ofraun sverðinu ok lét þat til höggs búit, en eigi til reistingar. Konungr kvað þat eigi mundu högg standaz, ef þat brotnaði í slíkum tilraunum. Ok nú reyndi hann þat sverð, er Alíus hafði gert ok hljóp þat aptr sem skíð ok at öllu var þat vænligra en hitt ok stóz hvárttveggja þær raunir, er konungr gerði. Konungr mælti: þetta er enn betra, er Alíus hefir gert, ok er hvárttveggja gott, eða hver náttúra fylgir? Alíus segir: þat, herra! ef þau mætaz á lopti ok sé þau í móti borin, þá mun mitt sverð framarr ok má þó kalla kosti eina ok jafna. Síðan tók konungr þat sverð, er Olíus hafði gert, ok vildi brjóta ok þá brast sverðit við hjáltit. Konungr bað hann betra sverð gera ok síðan geck hann reiðr til [466] smiðju ok gerði sverð ok feck þat konungi. Hann hafði nú allar slíkar raunir, sem við it fyrra ok stóz þetta allar. Konungr mælti: nú hefir þú vel gert, eðr er nú ecki hér á til vandkvæðis? Hann segir: járngott er sverð, enda munu nú nöckur forföll áliggja til hamingjubrotz, þvíat þat mun verða at bana inum göfgustum bræðrum, dóttursonum þínum. Konungr mælti: spá þú manna armastr! nú skal bræðrum at bana verða ok þó ógöfgum ok hjó til hans, en þeir vóru þá horfnir með skjótri brautför ok neyttu þá innar

neðri leiðar. Konungr mælti: þetta eru miklir óvinir ok við því skal vinna, at sverð geri mannigi mein. Konungr lét þá gera stock at sverðinu með blýi ok lét söckva niðr í löginn hjá Agnafit.

### 2. Kvánfang. 5

Helgi hét konungr ágætr; hann var hermaðr mikill. Helgi fór með herskipum á fund Buðla konungs ok gerði hónum orðsending, at hann mundi þar friðmaðr vera ok kvez vilja kannaz við hann ok þiggja at hónum veizlu. Konungr tók því vel. Helgi konungr geck upp til hallar ok feck þar góðar 10 viðtökur. Hildibrandr hét faðir Helga konungs, er réð fyrir Húnalandi. Helgi konungr mælti þá: birta mun ek mínn vilja til yðvar með tilmæli ráðahags við dóttur yðra; má ek sjá hvárttveggja at þessu sæmd, mik til landvarnar við yðr, en ríki yðvart til mótz. Buðli konungr segir: ek vil yðru erindi 15 vel svara með samhuga hennar við [467] oss ok síðan var þetta mál kært við hana, en hón geldr til samþycki vilja föður síns ok er nú aukin veizlan eptir tiginna manna sið ok fær Helgi konungr Hildar, dóttur Buðla konungs. Ok síðan vóru þeir mágar samhuga ok var Buðla konungi mikit traust at 20 Helga konungi. Þau Hildr áttu son, er Hildibrandr hét, er manna var vænstr, ok þegar er hann dróz á fætr, þá mælti Helgi konungr, faðir hans: þínn fóstrfaðir skal vera Hildibrandr inn ríki, faðir mínn í Húnalandi, ok er þá vænst, at þín forlög verði mátuligust. Helgi konungr sendi nú þangat sveininn. 25 Hildibrandr konungr tók ágætliga við hónum ok kvez vænta, at þar mundi uppfæðaz einn kappi. Eptir þat fór Helgi konungr í hernað, en Buðli konungr gerðiz gamall löndum at stýra.

### 3. Herferð Álfs konungs.

Álfr hét konungr, er réð fyrir Danmörku. Dóttir hans hét 30 Æsa in fagra; hón var fræg víða um lönd af vænleik sínum ok hannyrðum. Aki hét einn ríkr kappi í Danmörku, hann var í kærleikum miklum við konung ok Álfi konungi var at hónum mest traust. Konungr kallaði hann til sín ok mælti: hernað viljum vér drýgja í sumar ok taka þat ríki undir vára 35 eign, er áðr liggr gæzlulaust, en þó frami at, ef náiz. Kappinn svarar: herra! hvar vitið þér ríki falt? Konungr mælti: Buðli konungr er nú [468] örvasi at aldri ok viljum vér leggja undir

oss hans ríki. Aki segir: eigi vil ek þess letja, at gera stórræði ok mun enn sem fyrr eptir framaverk, at þér munuð laun hyggja vinum yðrum fyrir sitt starf. Síðan bjöggu þeir Álfr konungr ok Aki her sínn ok herjuðu í Svíþjóð á ríki Buðla konungs ok gerðu þar mikit hervirki í manndrápum ok fjárupptektum. En er Buðli konungr spyrr þetta, stefnir hann saman sínum her ok fær lítit lið, er styrkr Helga, mágs hans, var fjarri, en þó helt hann sókn upp ok var borinn ofmagni ok fell í þeirri orrustu, en Álfr konungr tók at herfangi dóttur hans ok allmikit fé ok fara nú heim við svá búit. Þá mælti Álfr: svá hefir oss til handa boriz, at vér höfum gnógt ríki ok fé, en fyrir þitt liðsinni, Aki! vil ek gipta þér Hildi, Buðladóttur, þótt hón eigi áðr bónda. Aki segir: hver munu önnur skapfeldri laun en þessi? ok eigi þicki mér at verra[1], þótt Helgi konungr eigi hana áðr. Eptir þat geck Aki at eiga Hildi, ok áttu þau einn son; sá hét Ásmundr. Hann var snemma mikill ok sterkr ok lagðiz í víking þegar hann mátti ok braut undir sik mikinn hermannaafla.

## 4. Fall Álfs konungs fyrir Hildibrandi Húnakappa.

Nú er þar til máls at taka, er Hildibrandr er, bróðir hans, son Helga konungs, en Helgi konungr fell í hernaði. Hildibrandr braut undir sik mikinn afla ok sveimaði víða með her sínn. Hann var mægðr við þann konung, er [469] Laszínus hét; hann var einn inn ríkasti konungr. Hann sótti þangat með vinganarorðum til mágs síns ok var hónum þar vel fagnat. Hann tók nú at geraz framgjarn mjök, er aflinn vóx. Þá vóru hertugar göfgir ok ættstórir í Saxlandi. Hildibrandr Húnakappi fór nú á hendr þeim ok kvaz vilja, at þeir gerði hónum slíka virðing, sem hann beiddi, eða þeir mundu sem aðrir sæta afarkostum. Þeir hertugarnir áttu systur ok var hón mest at ráðum, þvíat hón var þeirra vitrust. Síðan áttu þau eintal ok ætlaz fyrir, hvat af skyldi kjósa. Hón kvað þat meira ráð, at vægjaz til hans með skattgjaldi en eiga orrustu, ok er þat ráð, at ætla sér hóf en snúaz þá til mótstöðu, er styrkr er nöckurr; kvað hér svá mundu fara, sem í öðrum stöðum, at hann mun sigraz. Síðan sögðu þeir hertugarnir, at þeir vilja játa hónum skattgjaldi. Hann kvað þat forsjáligt ok sættaz

---

1) *So in S, nicht* vera *wie FAS. II 468.*

á þat. Hildibrandr Húnakappi braut nú margar þjóðir undir sik. Hann spyrr nú þau tíðindi, fall Buðla konungs, móðurföður síns. Hann stefndi þá her at sér af nýju ok kvaddi þings. Hann mælti, kvað mönnum kunnigt, hverr vandi á var, at fara í hernað, en lét eigi at högum tilskipt, ef herja skyldi á víkinga eðr á aðra menn fyrir lítla sök eðr enga, en hefna eigi móðurföður síns. Eptir þat flutti hann herinn í ríki Álfs konungs ok kvað Dani hafa kent atför um búshagi. Hann lét eisa eldum ok brenna víða. Álfr konungr sótti nú í mót [470] með her sínn ok þegar þeir funduz, börðuz þeir. Hildibrandr Húnakappi hafði berserkja náttúru ok kom á hann berserksgangr. Ecki var Aki hertugi við þessa orrustu, þvíat hann var í hernaði. Hildibrandr Húnakappi geck í gegnum fylkingar Álfs konungs ok var ilt fyrir hónum at verða. Hjó hann á tvær hendr sér ok sótti grenjandi at konungs merkinu ok í þessi orrustu fell Álfr konungr ok mart lið hans ok eptir þat fóru Húnar aptr. Hildibrandr geriz þá allra manna frægstr ok sat jafnan at búum sínum á vetrum, en herjaði á sumrum.

### 5. Ferð Ásmundar.

Þar er nú til máls at taka, er Ásmundr Akason var í hernaði ok þótti víkingum hann ósvifr í atlögum ok harðgerr. Eyvindr skinnhöll hét maðr, danskr at ætt, vænn maðr, ríkr ok auðigr ok barz á mikit. En er þeir feðgar, Aki ok Ásmundr kómu or hernaði, þá vóru þeim sögð þessi tiðindi, fall Álfs konungs. Þeir sátu nú í kyrðum. Ásmundr vissi eigi frændsemi milli þeirra Hildibrandz, þvíat móðir hans sagði hónum ecki frá. Eyvindr skinnhöll fór á fund Æsu innar fögru, konungsdóttur, ok kvez mæla vilja til ráðahags við hana, kvað henni vera kunnigan mannasóma sínn ok fjáreign, ætt hans ok framkvæmd. Hón kvez hafa mundu við ráð

| *S.* | *M.* |
| --- | --- |
| vina sinna um annsvör. Eptir þetta berr hón málit fyrir þá, Aka ok Ásmund, [471] föstbróð- | [vina sínna[1]) ok bar málit fyrir Háka, fóstra sínn ok Ásmund, hvat af skal kjósa. |

1) *Mit* vina sínna *beginnt das Fragment M, hier neben S abgedruckt.*

S.

ur sinn. Aki kvez þessa ecki mundu fýsa. Þá mælti Ásmundr: ecki skaltu eiga Eyvind, mik 5 skaltu eiga. Hón segir: fóstbróðir! meira hefir hann nú yfirlæti í landinu ok býr ríkuligarr, en þat munda ek ætla, at þú mundir hafa manndóm meira. 10 Ásmundr mælti: legg til hamingju þína með mér ok má þá verða báðum ockr vegr at þessi ráðagerð. Hón mælti: þann yckarn skal ek eiga, segir hón, er 15 mér fær fegri hendr í haust or hernaði. Síðan lögðu þau niðr þessa umræðu ok lögðuz þeir í hernað báðir eptir vanda, ok hætti Ásmundr opt með miklum 20 háska til stórfanga ok aflaði svá fjár ok frama, en Eyvindr var optliga hjá matgerðarmönnum ok lét eigi ganga glófa af hendi sér. En er at hausti kom, sóttu 25 þeir báðir á fund konungsdóttur, hvárr með sínum mönnum. Eyvindr geck fyrri fram ok bað konungsdóttur líta á sínar hendr. Æsa[1]) in fagra mælti: vel hafa 30 þessar hendr varðveittar verit ok eru hvítar ok fagrar, hafa litt litat sik í blóði né ófegrðar í höggum; sjám nú, Ásmundr! þínar hendr, segir hón. Hann 35 rétti fram sínar hendr ok vóru þær öróttar ok heldr döckvar af blóði ok vápnabiti, ok er hann

M.

Háki segir ei hér um fýsandi vera ok lét henni enga sæmd á slíku gjaforði ok léz ei heyrt hafa getit framkvæmdar Eyvindar í stórvirkjum. Þá mælti Ásmundr: ecki skaltu hann eiga, þú skalt eiga mik. Hón svarar: meira hefir Eyvindr fé í landi en þú ok býr ríkuligarr, en þat munda ek ætla, at þú mundir hafa mannskap meira. Ásmundr svarar: legg til hamingju þína með mér ok má ockr þá verða báðum vegr í þessum ráðum. Hón segir: þann yckar skal ek eiga, er mér færir fegri hendr or hernaði. Nú skilja þau at þessu ok leggjaz þeir í hernað. Ásmundr hitti opt í stóran mannháska ok aflaði með því bæði fjár ok frama, en Eyvindr var opt með matgerðarmönnum ok lét ei ganga glófa af höndum sér. Hann var einn jarlsson. At hausti koma þeir heim ok fóru þegar á fund konungsdóttur, hvárr með sínum mönnum ok geck Eyvindr fyrr fram ok talar svá til hennar: sjáið hér, frú! hendr mínar. Hón mælti: vel hafa þessar hendr geymdar verit, er svá eru hvítar ok

---

1) *In S steht hier* Asa.

S.

brá frá [472] klæðunum, þá vóru
þær hlaðnar hringum gullz til
axlar. Þá mælti konungsdóttir:
þat mun þó mitt atkvæði, at
Ásmundar hendr sé fegri með
öllu saman, ok ertu, Eyvindr!
fráráðinn þessum ráðahag. Ás-
mundr mælti: þá mun ek til-
kosinn, frú! Hón segir: fyrr
skaltu hefna föður míns, þvíat
þann einn samir mér mann at
eiga, er þess rekr réttar ok viðr
sér frama á Hildibrandi Húna-
kappa. Þá mælti Ásmundr: hversu
má hann vinnaz, er engi sigraz
á hónum, eðr hvert ráð leggr
þú til? Hón segir: heyrt hefi
ek, at sverð sé folgit í leginum
hjá Agnafit ok heyrt hefi ek
ummæli á því, ef þat sverð væri
borit í móti því, er Hildibrandr
hefir, at hans sverð skyldi undan-
láta; en í nánd vatninu býr
gamall bóndi, vinr mínn, ok mun
hann gera þér farargreiða með
mínu tilstilli. Ásmundr kvað
þat mundu áfinnaz, at hann var
gjarn til ráðahags við hana, ef
hann segði sik í þessa hættu.
Eptir þetta fór Ásmundr einn-
saman til bóndans ok sagði hón-
um sitt erindi ok orðsending
konungsdóttur. Bóndinn bað
hann velkominn. Hann horfði
mjök á Ásmund of kveldit. Ás-
mundr mælti: hví horfir [473]

M.

fagrar ok hafa þær litt litaz
í blóði, né stirðnat[1]) mjök í
höggum. Nú rétti Ásmundr
fram sínar hendr ok vóru
þær mjök sárar ok ómjúkar
af vápnabitum, ok er hón brá
frá klæðum, þá vóru þær
hlaðnar gullhringum til axlar.
Þá mælti konungsdóttir: þat
er mikit ummæli, at þínar
hendr sé fegri með öllu sam-
an, þvíat mannliga hafa þær
aflat með þínu tilstilli ok
stórum áhuga ok þarftu, Ey-
vindr! at lypta glófunum, áðr
þú aflar slíks. Nú er Eyvindr
fráráðinn þessum ráðahag.
Þá mælti Ásmundr: því mun
ek þá ei tilkjörinn? Hón
svarar: fyrri skaltu hefna
föður míns, þvíat þann einn
heyrir mér mann at eiga, er
þat gerir, at hefna hans á
Hildibrandi Húnakappa. Ás-
mundr svarar: hversu má mér
þat vinnaz, sem engum hefir
áðr unniz, at sigra hann, eða
hvert ráð leggr þú til? Hón
svarar: heyrt hefi ek, at sverð
sé folgit í leginum við Agða-
fit, ok eru þau atkvæði á,
ef þat er borit í móti því
sverði, sem Hildibrandr hefir,
þá mun þat vinna; hefir Buðli
konungr hér umbúit, en [dverg-
arnir gerðu[2]) Olíus ok Alíus;

1) *M schreibt* stirnat.
2) dvergrinn gerði *M.*

*S.*

þú á mik? Hann kvað sök til vera. Ásmundr mælti: hversu lengi hefir þú hér búit? Hann kvez þar hafa búit allan aldr sínn, en þar hygg ek nú at því, at hér gistu fyrir löngu sendimenn Buðla konungs, en þeir fóru með Hildibrand til fóstrs til Hildibrandz[1]) konungs; en þik hefi ek sétt annann vænligastan en hann ok hónum líkastan at svip. Ásmundr mælti: eigi veit ek, at með ockr sé nein skylda, eða hvat veiztu til sverðz þess, hvar folgit sé, er afrek er frásagt? Hann segir: hér var ek, þá er því var sökt ok gerla hefi ek mið til, hvar þat er folgit ok mun enn vera óspilt at því, er ek hygg. Þá mælti Ásmundr: fyrir orðsending konungsdóttur þá flyttu mik þangat. Hann kvað svá vera skyldu. Hann hafði með sér flicki stór ok eldiskíð. Ásmundr mælti: hvat skal þetta, búandi? Hann svaraði: ærit mun þér kalt, er þú kemr upp, þóttu bakir þik við þetta. Ásmundr mælti: þú ert ráðugr mjök. Síðan fóru þeir á skipi ok þá er minnzt varir Ásmund, mælti búandi: hér sváua. Síðan hljóp Ásmundr fyrir borð ok kafaði, ok er hann kom upp, þá vildi hann niðr öðru sinni. Bóndi

1) Hildiz *S.*

*M.*

nú ef þessi sverð eru móti borin, hvárt öðru, þá var svá fyrirmælt, at göfgum manni skyldi at bana verða; en hverr er nú göfgari en Hildibrandr? ok vildi hón þá ei segja hónum þar meira af. En í nánd vatninu býr einn gamall maðr[1]), vinr mínn, ok mun hann vinna þér faragreiða fyrir mína skuld. Ásmundr segir, at þat mundi mega áfinnaz, at gjarn mundi hann til ráðahags þessa, ef ek legg mik í slíka hættu.

Ásmundr gengr nú einnsamt ok finnr bóndann ok segir hónum sitt erindi ok orðsending konungsdóttur. Bóndi bað hann velkominn ok horfði mjök á hann um kveldit. Ásmundr spyrr: því horfir þú svá mjök á mik? Bóndi kvað sök til þess. Ásmundr mælti: hversu lengi hefir þú hér búit? Hann segiz þar verit hafa mjök allan sínn aldr, en því hygg ek at þér, at hér vóru fyrir löngu sendimenn Buðla konungs ok fóru með Hildibrand Helgason, en þik hefi ek í bragði líkastan sétt hónum. Ásmundr svarar: ei veit ek þess vánir, at vit sém skyldir, eðr hefir þú nöckut heyrt um

1) mann *M.*

*S.*

mælti: þat hæfir þér eigi, bakaztu nú ok snæð ok svá gerir hann. Ok öðru [474] sinni, er hann kafar, kennir hann stocksins ok lyptir nöckut svá ok fór upp ok bakaðiz. Ok nú þriðja sinn kafar hann ok náir hann stockinum ok fluttu þeir hann til landz ok þá hjó Ásmundr upp stockinn með öxi ok geck af hyrnan, er kom í sverðzeggina. Ásmundr mælti: vel hefir þú veitt, karl! ok þigg af mér einn gullhring fyrir þitt starf, ok vitja mín kunnliga, ef þú þarft. Karl þackaði hónum vel ok skilduz. Eptir þat fór Ásmundr heim ok segir konungsdóttur. Hón sagði: nú er mikit atunnit ok muntu vera ágætr maðr. Nú er ráð fyrir hendi; ek vil senda þik til þeirra hertuga í Saxlandi, er ríkit hafa mist fyrir Hildibrandi ok til systur þeirra, þvíat hón er vitr kona ok er þat mitt ráð, at geraz þaðan til slíkra hluta, sem þá vill í hendr bera, þvíat flesta get ek stopalt ganga fyrir þér við áræði þitt ok góðan vápnakost. Ok síðan fór Ásmundr í braut.

### 6. Viðtal hertuga ok Ásmundar ok systur.

Nú er at segja, hvat í Sax-

*M.*

[vörðu á [1]) sverði því, er mest afbragð sé í, eðr hvar þat er folgit? Hann svarar: hér var ek, þá er því var niðrkastat í löginn ok hygg ek enn óspilt. Ásmundr segir hónum nú fra orðsending konungsdóttur ok bað hann flytja sik þangat. Bóndi kvað svá vera skyldu ok fór síðan ok hafði bóndi með sér flickisstúf ok skíð með eldi. Ásmundr spyrr: hvat skal þetta? Bóndi svarar: ærit mun þér kalt, þá er þú kemr upp, þótt þú bakiz hér við. Ásmundr segir: þú ert ráðugr. Þeir fóru á skipi yfir löginn. Þá mælti karl: hér nöckut nær er vánin. Þá fór Ásmundr af klæðum ok kafaði niðr, ok er hann kom upp, þá vildi hann niðr í annat sinn. Þá mælti karl: þat hæfir eigi ok baka þik ok snæð. Svá gerir hann ok kafar nú niðr í annat sinn ok kennir hann stocksins ok lyptir ok getr ei uppkomit ok fór upp ok bakaz. Í þriðja sinn fór hann niðr ok náði þá stockinum ok flutti til landz ok hjó Ásmundr nú upp stockinn með öxi ok kom hyrnan í eggina á sverðinu ok tók hana þegar af.

1) *Undeutlich aber doch sicher* (*von* varða *fem.*).

*S.*

landi er, at einn dag tók systir hertuga til orða: svá vísa mér draumar til, sem oss muni sækja heim ágætr maðr, sá er oss muni verða at mikilli [475] hamingju ok váru ríki. Þeir bræðr tóku því vel, ok um kveldit þess dags sá þeir ríða at höllinni mikinn mann með ágætligum vápnum ok hertugarnir gengu í móti hónum ok buðu hónum þar. Hann léz þat þiggja mundu. Þeir settu hann milli sín, en systir þeirra skenkti ok settiz síðan á tal við hann ok bræðr hennar. Hón mælti þá: ecki er oss mjök kunnigt um yðra hagi, en sjá kunnum vér þat, at mikill tignarsvipr er yfir yðr ok trúum vér, at nöckut gott leiði oss af þér ok þinni hérkvámu. Nú munuð þér heyrt hafa, hverja nauð vér þolum fyrir ofríki Hildibrandz Húnakappa; vér gengum fyrst undir skattgjald, en nú skulum vér mæta á hverjum misserum hólmgönguboðum af hans berserkjum ok skal æ bú standa við hverja hólmgöngu; höfum vér nú svá mist bæði manna várra ok búa, ok nú eru

*M.*

Ásmundr mælti: vel hefir þú mér dugat, karl! ok þigg af mér gullhring fyrir starf þitt ok vitja mín, ef ek verð nöckurs ráðandi. Karl þackar hónum vel. Ásmundr ferr nú heim. Hann hittir[1]) konungsdóttur ok sagði henni, hversu komit var. Hón sagði nú mikit atgert ok muntu verða ágætr.[2]) Nú er þat mitt ráð, at ek vil senda þik til þeirra hertuganna í Saxland, er sitt ríki hafa mist fyrir Hildibrand, en systir þeirra er vitrust af þeim, ok er þat mitt ráð, at þú geriz þangat til slíkra[3]) hluta, sem þá vill í hendr bera, þvíat ek hygg, at flestum gangi stopalt[4]) við þik at eiga, við áræði þitt, ok hyllz hana sem mest at ráðum ok mun þá duga. Síðan ríðr hann leiðar sinnar. Nú er at ræða um Saxland, at systir þeirra bræðra tók svá til orða: ecki kemr mér á óvart, þótt oss sæki heim stórburðigir menn, þvíat hér eru komnar margar dísir. Her-

1) *Von* hittir *ist nur* -ttir *sichtbar, das übr. vom Rande abgerissen.*

2) *Vielleicht stand* ágætr maðr, *da der Rand, auf welchem* maðr *stehen müsste, abgerissen ist.*

3) *Sehr undeutlich.*

4) stophalt *geschr. in M.*

*S.*

eigi meirr eptir en tólf bú várs hertugadæmis. Ásmundr svarar: frú! segir hann, mikinn skaða kærið þér fyrir mér ok nauðsyn væri, at hepta þenna storm, ok til þess em ek hér [476] kominn, at verja yðvart ríki, ef ek fæ. Hertugarnir segjà, at skamt mun líða, áðr kraft mun vera hólmgöngu. Ásmundr svarar: þá verðr því at svara. Hann er nú þar í góðu yfirlæti.

### 7. Frá sendimanni.

Nú er at segja frá Laszíno konungi ok Hildibrandi Húnakappa, mág hans. [Hildibrandr segir[1]): mun eigi kominn sá tími, er hólmgöngu skal reyna við hertugana ok menn þeirra; nú væri eigi torsóttligt, at ná þeim búum, er eptir eru. [Konungr mælti: gerum heldr[2]) mann til þeirra ok vita, ef auðvelligarr fáiz. Sá maðr hét Vöggr, er sendr var. Frá hans ferð er ecki sagt fyrr en hann kemr til hertuganna. Hann geck í höllina ok fyrir borð ok mælti síðan: Laszínus konungr ok inn ríki Hildibrandr Húnakappi vilja vita, hvárt þit vilið koma til hólmstefnu eða láta þrautlaust, þat er eptir er.

1) *Fehlt in S.*

2) *In S steht nur:* Konungr heldr mann . . . ., *vgl. aber M S. 91 unten:* Atli konungr mælti: gerum heldr mann . . . .

*M.*

tugarnir spurðu, hversu hón mætti þat vita. Hón svarar: svá vísa mér draumar, at hér muni koma sá maðr, at oss mun snúaz til hamingju ok váru ríki ok var þat fyrr hugboð mitt, at betra mundi, at bíða síns hlutar um stund en berjaz við Hildibrand. Ok um kveldit sáu þeir ríða mikinn mann at staðinum með vápnum ok gengu í mót hónum með virðingu ok buðu hónum þar at vera. Hann segiz mundi þiggja boð þeirra ok settu hann milli sín. Systir þeirra skenkti hónum ok sat á tali við hann ok bræðr hennar. Hón mælti þá: ecki er oss mjök kunnigr yðvarr ráðahagr, en þó kunnum vér þat, at oss þickir mikit tignarbragð á þér vera, ok trúum vér, at verða mun nöckut gott af yðvarri kvámu leiða ok munuð þér heyrt hafa, hversu minnkaz hefir várt ríki við tilkvámu Hildibrandz Húnakappa, en vér vitum, ef þú vildir afráða þetta áfelli, at batna mundi várr hagr, þvíat nú er ei meirr eptir en tólf stórbú, þvíat á hverj-

*S.*

Hertugarnir svara: svá er nú komit, ef ofmikil þickir vár eiga, at[1]) lítit er at missa hjá því sem góðra drengja. Ásmundr mælti: hví mælið þit svá? mun eigi því meiri nauðsyn, at halda, er minna [477] er eptir? Vöggr horfir á hann. Ásmundr mælti: hví horfir þú svá þrátt á mik? Hann segir: þat berr til, at ek hefi eigi sétt inn þriðja mann jafnvirðuligan, sem þit Hildibrandr eruð; hann er ljósari, en þú ert eigi óharðmannligri ok spurt hefir Hildibrandr, at ókuðr maðr var hér kominn með góð vápn, ok ek skylda sjá þitt sverð. Ásmundr bað hann ráða. Hann leit nú á ok mælti: hér fara vápnin eptir yfirsýn þeirra, er eigu; hitt er bjartara ok gert betr, en eigi er þat snarpara. Ásmundr kvez eigi þat vita, en vita munt þú vilja þitt erindi. Hann kvað svá vera. Ásmundr mælti: seg svá höfðingjum yðrum, at koma mun maðr af hendi hertuganna til hólmstefnu. Nú reið Vöggr heim ok kvaddi konung ok Hildibrand. Hildibrandr mælti: hver svör kantu at segja af ráðagerð hertuganna? Vöggr svarar: þess er mér ván, at þeir ljúgi eigi hólmstefnu. Hildibrandr mælti: þó eru þeir nú

1) er *S.*

*M.*

um misserum höfum vér mikit fé útlátit í vára útlausn, ok nú síðan áleið, höfum vér hólmlagt við berserki Hildibrandz ok hafa stórbú viðlegit hverja hólmgöngu; höfum vér mist þess ok svá mannanna ok gengum vér fyrst undir skattgjald ok þetta hefir nú á bak komit. Ásmundr mælti: mikit kærið þér ok nauðr væri á, at hefna þessa stórvís ok til þess er ek hér kominn, at láta ei lengr minnkaz yðvart ríki. Hertugarnir segja, at ei mundi langt verða, áðr en menn Hildibrandz mundi koma ok kveðja hólms. Ásmundr mælti: þá verðr því svör at veita, er þar kemr. Hann er með þeim í fagnaði miklum.

Nú er at tala um Hildibrand ok um hans mág, Atla konung, at þeir talaz með ok mælti Hildibrandr: mun ei þat ráð, at reyna hólmgöngu við menn hertuganna ok er nú ei mikil þraut, at ná þeim búum, sem eptir eru. Atli konungr mælti: gerum heldr mann til þeirra ok vitum, ef náðuligarr náiz. Þessi hét Vöggr[1]), er sendr var. Nú kemr hann á fund hertuganna ok heilsar þeim ok mælti síðan: konungr

1) *In M steht hier* Vegr.

*S.*

mjök herðir, eða veldr því sá inn ókunni maðr, eða með hverjum svip sýndiz þér hann? þú ert glöggþeckinn. Vöggr segir: hans yfirbragð er með [478] því, at hann er látaðr vel ok allíkr yðr í augum ok sýndiz mér líkligr til, at vera muni ofrhugi, ok þat sverð hefir hann, er ek sá ecki jafnlíkt því, sem þú hefir, ok þat hygg ek, at or einum afli sé borit. Hildibrandr mælti: mikit finnz þér um þenna mann; ætlar þú eigi, at mitt sverð muni vera [jafnt hans sverði[1]) eða hann muni mínn jafningi vera? Vöggr svarar: eigi veit ek, hvárt hann er þínn jafningi; hitt veit ek, at sá, er berz við hann, at hann kemr í þá raun, at hann er víst dugandi maðr. Hildibrandr mælti: framarla segiz þér frá: Ok nú lætr Hildibrandr einn af sínum köppum ríða til hólmstefnu. Ok[2]) nú er Ásmundi sagt, ok nú biðr hann taka sínn hest ok sín herklæði. Hertugar mæltu: vér bjóðum þér várt lið. Hann kvað, einn skyldu einum í mót koma. Hann ríðr nú þangat, sem hólmstefnan skyldi vera ok nú riðuz þeir at með brugðnum sverðum ok it fyrsta högg hjó Ásmundr hann sundr í miðju, fleygði [479] síðan hlut-

1) *Fehlt in S, vgl. M S. 94 unten.*
2) *Kein neues Cap. in S.*

*M.*

várr inn ríki ok inn mikli Hildibrandr vill vita, hvárt yðr er skapfelt um hólmgöngur yðrar, eðr vilið þér heldr láta þrautlaust, þat er hann kallar til? En þeir svara: svá er nú komit at, ef ofmikil þickir vár eiga, at litit er þat, at missa hjá því sem góðra drengja. Ásmundr mælti: því talið þit bræðr svá? mun ei því meiri nauðsyn, at halda sem minna er? Vöggr[1]) horfði fast á [þenna mann.[2]) Hann mælti þá: því horfir þú svá bratt á mik? Hann svarar: þat berr til þess, at ek hefi þér engan sétt virðuligara mann nema Hildibrand ok er hann þó meiri, en mjök eruð þit líkir ok ecki ertu óhamingjusamligri í þínum svip en hann; spurt hefir hann ok, at hér er kominn ókunnigr maðr með góðum vápnum ok því var ek sendr, at skynja um alt saman þetta, eða viltu lofa mér, at sjá sverð þitt? Ásmundr svarar: því skaltu ei sjá þat, ef þú vilt? ok feek hónum. Vöggr leit á ok mælti: þetta sverð ferr eptir yfirlitum þínum; Hildibrandr á ok annat sverð ok er þat bjartara ok

1) *Auch hier* Vegr *die Hs.*
2) þesm *geschr. in M.*

*S.*

unum út á ána ok rak þá fyrir höfuðborg konungs. Hildibrandr mælti: seint sækiz várum félaga, at leysa þenna inn ókunna mann. Síðan mælti maðr einn: herra! segir sá, hér mun kostr, at sjá hann, er hann rekr eptir ánni ok er nú í tveim hlutum. Hann mælti: ærit er þessi stórhöggr ok skipiz nú tveir af várum mönnum ok leysið hann því skjótara af hendi. Þeir kváðu eigi þat mikit verk. Hildibrandr mælti: várt gagn er þat, ef þit vinnið skjótt sigr á hónum. Ok annann dag eptir riðu þeir til vígvallar, tveir móti Ásmundi. Hann mælti: hér hafa berserkir fásén lög, er tvau sverð koma í móti einu, en allbúinn em ek, at frelsa þetta víg við yckr tvá. Þeim þótti óvirðuligt, at standa tveir fyrir einum, ok hjöggu báðir til hans, en hann brá fyrir sik skildi ok hjó sínu höggvi hvárn til bana. Síðan reið hann aptr til hertuganna, en þeir gengu í mót hónum með fagnaði. Hann kvez ætla, at aptr hefði unniz þrjú bú þeim til handa í hans ferð. Þá mælti systir hertuganna: eigi hafa villz várir draumar um þessa mannz kvámu. Hann sat nú þar í veg miklum ok hlaut af þessu frægð mikla.

*M.*

betr gert, en ecki er þetta ósnarpara. Ásmundr kvaz þat ei vita ok enn mælti hann: vita muntu erindi þitt. Vöggr[1]) segir: þat veit ek víst. Hann segir þá: seg þat höfðingjum þínum, at hertugarnir munu koma til hólmgöngu með sína menn. Vöggr fór þaðan ok kom heim ok kvaddi konung ok Hildibrand. Hildibrandr mælti: hver svör kanntu oss at segja af hertugunum? Vöggr svarar: mér þickiz meiri ván, at þeir muni koma. Hildibrandr mælti: þá eru þeir mjök uppherðir, eðr veldr því inn útlendi maðr, eðr hversu leiz þér á hann, þar þú ert glöggþeckinn. Vöggr segir: hann sýndiz mér vænn ok tiguligr ok mikill vexti ok yðrum alt líkr at sjá, eygðr manna bezt, talaðr vel ok stórmannligr ok sýndiz líkr til at vera ofrhugi. Hann hefir ok þat sverð, at ek sá [ecki líkara[2]) ok þitt sverð. Hildibrandr mælti: mikit finnz þér til þessa mannz, eða hyggr þú hann minn jafningja, eða hafa jafnt sverð mínu sverði. Vöggr segir: ei veit ek, hvárt hann er þinn jafningi, en hitt veit

---

1) *So hier in M.*
2) enginn líkari *in M.*

S.

Þetta var nú sagt Hildibrandi ok hann mælti: ecki undr þickir mér þetta, þóat einn maðr sigri tvá menn; nú skal skipa fjórum mönnum í mót hónum. Kapparnir kváðu þat auðsætt, at þeir mundu skipta hónum í sundr í fjóra staði. Ok nú riðu þeir til [480] vígvallarins með góðum hjálmum ok hvítum brynjum ok hvössum sverðum. Nú kómu þessi tíðindi fyrir Ásmund ok hertugana. Þá báðu þeir, at hann skyldi fara með jafnmörgum mönnum. Hann kvez eigi þat vilja, lét þat vænst, at einn mundi senn einum í móti, en kvað mikit árnaz, ef fjögur bú fengiz. Ok því næst funduz þeir. Ásmundr mælti: þat er auðsætt, at ér þickiz lítils verðir ok þér skipiz fjórir í móti einum ok eigi [mega þeir[1]) kappar heita, heldr safnaðarmenn. Þeir urðu ákafa reiðir við orð hans ok sóttu at hónum þegar, en þat sverð, er hann bar, beit brynjur ok hjálma jafnslétt sem

1) *So in S nicht* megi þér *wie FAS. II 480.*

M.

ek, at sá er berz við hann, kemr í þá mannraun, at hann er vaskr maðr ok dugandi drengr. Hildibrandr mælti: framarliga mælt hefir þú; nú komi hann til Masshellu til mótz við einnhvern várn mann.

Hildibrandr sendir sendingarmenn til hertuganna ok segja svá: þat býðr inn ríki Hildibrandr þeim inum stórláta[1]) manni, at hann komi í mót við hann, ef hann treystir[2]) sér. Ásmundr svarar: ek mun koma [í þann stað, en sendimenn fara[3]) í burt. En Ásmundr lét taka hest sínn ok vápn, en hertugarnir buðu hónum lið. Hann kvað, einn skyldi einum í mót. Síðan ferr Ásmundr ok kemr at ánni Rín, þar sem hólmgangan var stefnd. Þar kemr í mót hónum einn af köppum Hildibrandz ok riðuz at með brugðnum sverðum ok var þat it fyrsta högg . . . .[4])

1) *Von* stórláta *ist nur* st *am Rande sichtbar, das übr. abgerissen, auch* manni *ist undeutl. u. unsicher.*

2) *Sehr undeutlich u. unsicher.*

3) í þann stað *ist sicher lesbar, obwol etwas verwischt, ebenso* en sendimenn; *dann fehlt ein Wort, weil vom Rande abgerissen.*

4) *Das Fragment M schliesst mit* it fyrsta högg.

næfr ok eirði ecki mannzbeinum né holdi, en sá reiddi til, er sterkan armlegg hafði ok gott hjarta. Þeir fengu stór sár af hónum ok skamt var í milli ok drap hann þá fjóra ok rak þá út á ána með hestunum. Nú fréttir Hildibrandr
5 þetta ok mælti: er nú annathvárt, at menn várir eru minni til herskápar en vér hugðum, eðr elligar er sá forgangsmaðr. Hann kallar þá til sín fimm ina grimmustu kappa, [segir ok kvað[1]) þeim eigi ofætlat, þótt þeir sigraði einn mann. Þeir kváðuz ætla at færa í hóf hans dul ok gefa dýrum hræ hans;
10 síðan ganga[2]) þeir út. En er Ásmundr spyrr þetta, þá mælti hann: í dag ætla ek at vinna til borðhaldz mér. Þeir kváðuz ætla ugga, at hann mundi ofmikit ætla sér, en kváðuz alla sæmd hónum at launa eiga. Síðan hittaz þeir ok börðuz þegar ok hjó Ásmundr stórt ok [481] tíðum ok lauk svá, at hann
15 drap þá alla. En er Hildibrandr spyrr þetta, mælti hann: seint dofnar hans hönd ok skamt skal til, at hann skal ná at berjaz. Þá geriz í skálanum ymr mikill af grenjun berserkjanna, er sá einn maðr skal ganga yfir svá marga menn. Þá mælti Hildibrandr: búiz nú sex várir menn ok mættið þér
20 þá vinna þá fragð, at hefna várra manna. Síðan fóru þeir til hólms ok þá er Ásmundr spyrr þetta, bjóz hann skjótt ok mælti: þat sverð hefi ek, at jafngott er, at drepa með sex menn sem þrjá ok síðan funduz þeir. Þá mæltu kapparnir, at hann skyldi laust láta sverðit ok gefaz upp. Hann segir: þat
25 mun eigi at óhöggnum skildi; er yðr ok ærin nauðsyn, at hefna yðvarra manna. Síðan börðuz þeir ok sóttu hann fast. Hann kunni it sama lag á, at höggva sverðzegginni nú ok fyrr, ok þótt hann fengi sár, þá linaði hann ecki sverðzhöggunum ok hjó suma sundr í miðju ok svá lauk, at hann drap
30 þá alla ok fór aptr til hertuganna. Þeir gerðuz fjölmennir, er ríkit vannz æ undir þá, ok nú er í hvers mannz húsi umræða um þenna kappa. Ok enn kómu þessi tíðindi fyrir Hildibrand ok mælti hann: rýrt verðr nú tal várra manna, eðr hvat er nú eptir? Herra! sögðu þeir, eptir eru sex[3]) ok tuttugu. [Hildi-
35 brandr svarar[4]): svá mun nú mega metaz heðan í frá, at þessi inn ókunni maðr mun taliðr með stórköppum ok svá bleðr

1) *So in S nicht bloss* ok kvað (*FAS. II 480*). 2) ganga *fehlt S.* 3) sjau *S; Conjectur wegen des ff.* 4) *Fehlt S.*

[482] hann af, sem vit munim hittaz verða, en senda skal enn sjau, þá er lengi hafa í mínni þjónustu verit. Síðan bjögguz þeir. Ásmundi var sagt nú, at eigi mundi setuefni. Hann segir: er þat þá eins snæðings hald, ef næðiz sjau bú. Síðan fór hann ok kómu í móti hónum sjau kappar. Þá mælti 5 Ásmundr: fyrir hví hleypir Hildibrandr út mönnum sínum, en sitr heima sjálfr ok etr á mik smámenni? Þeir reidduz mjök við orð hans ok kváðu hann í enga raun koma skulu, at berjaz við Hildibrand. Síðan börðuz þeir ok hversu sem atortiz, þá drap hann þá alla. Síðan hratt hann þeim út á ána. 10 En er Hildibrandr frá þat, þá mælti hann: miklu eru nú stærri atburðir orðnir en vér megim láta afhyggjaz. Nú skulu at hónum átta berserkir, þvíat engum várum er líft við þat, ef eigi verða hefndir. Síðan grenjuðu þeir mjök ok bitu or skjöldum, þat er tók. En Ásmundr var með hertugunum ok kómu hónum 15 þessi tíðindi, at enn muni kostr at berjaz. Þá mælti systir hertuga: sæmd sú, er vér létum, er nú öll aptrkomin ok með meira mætti en vér höfum spurdaga til. Ásmundr segir: skulum vér tilhætta, þvíat hann vill berserkjunum útegna, en engi máttr er yfir þeim ok betra mundi, at þeirra ríkdómr legðiz 20 við várt ríki, þvíat ér mistuð rangliga. Síðan reið hann í mót þeim ok þegar þeir funduz, börðuz þeir ok var sá [483] fundr lengstr, en svá lýkr, at hann drepr þá alla. En er Hildibrandr spyrr þetta, eiskraði hann mjök ok mælti: sá maðr er hamingjudrjúgr, er ecki tjóar mannmergð í móti; nú skulu at hónum þeir 25 ellifu, sem eptir eru. Ok er Ásmundr spyrr þetta, þá þagnaði hann. Hertugarnir mæltu: nú viljum vér skipa liði með þér, en þú ver foringinn ok mun þér þá sigraz, en þú berz eigi einn við svá marga ofrhuga. Ásmundr svarar engu ok kom aptann ok snæða menn ok fóru síðan at sofa. Ásmund dreymdi, 30 at konur stóðu yfir hónum með hervápnum ok mæltu: hvat veit óttabragð þitt? þú ert ætlaðr, at vera forgangsmaðr annarra, en þú óttaz ellifu menn; vér erum spádísir þínar ok skulum [vér vörn veita þér móti mönnum, er atberjaz við hertugana, en þá er þú hefir at reyna við þik.[1]) Við þetta 35

---

1) *Sehr verwischt und undeutlich als erste Zeile einer Seite;* vér *fehlt ganz,* vörn veita þér *ziemlich deutlich, von* móti *sieht man nur* no; er atberjaz við *ziemlich sicher,* hertugana *vermuthe ich nur in verkürzter*

spratt hann upp ok bjóz, en flestir löttu hann. Síðan reið hann í mót köppunum. En þeir þóttuz ráð hans í gaupnum hafa ok létu hónum betr hent, at ganga á hönd Hildibrandi en látaz. Hann kvað þá sér eigi ófalari til dauða en þeir,
5 sem fyrr drap hann, ok kvað þat auðvitat, at mikill mundi verða frægðarmunr eins ok ellifu. Síðan börðuz þeir ok kringðu um hann, en hann var torsóttr ok festuz vápnin litt við hann, en sverð hans beit alt, þat sem fyrirvarð ok þat [484] tók ok lauk svá, at hann veitti þeim öllum bana. Her-
10 tugarnir höfðu fylgt hónum ok kváðu hans afrek aldri mundu fyrnaz ok gerðiz þat orð manna, at hann mundi eigi undanvíkja [1]), þótt sjálfr Hildibrandr Húnakappi kæmi í móti hónum, er manna var frægastr í þann tíma.

## 8. **Fall Hildibrandz.**

15 Ok er Hildibrandr frá þetta, at kappar hans vóru drepnir, þá kom á hann berserksgangr ok sneriz þegar til ferðar ok mælti: eigi skal þat mælt, at ek hætta mönnum mínum út, en þora ek eigi sjálfr at berjaz. En í vanstilli þessu, er á hónum var, ok hann var á ferðina kominn, þá sá hann son sínn ok
20 drap hann þegar. Síðan ók hann upp með ánni Rín til mótz við Ásmund. Þann skjöld hafði hann, er á vóru markaðir menn svá margir, sem hann hafði drepit. En er Ásmundr spurði þetta, þá bjóz hann til mótz við hann. En þegar er þeir funduz, þá börðuz þeir ok vóru flest högg ærit stór. En
25 er þeir höfðu lengi bariz af mikilli reiði, þá neytti Hildibrandr afls ok hjó til Ásmundar af öllu afli tveim höndum, ok í því er sverðit kom í hjálminn, þá brast þat sundr undir hjáltinu ok fór brandrinn grenjandi niðr í ána, en hann var þá sárr mörgum sárum. Síðan kvað hann vísur þessar:

30 I. Mjök er vandgætt, hvé verða skal
ofborinn öðrum at banorði:
þik Drótt of bar af Danmörku, [485]
en mik sjálfan á Svíþjóðu.

---

*Gestalt, es ist nur* h *sichtbar; das übr. ziemlich deutlich bis auf* við þik, *das ich jedoch auch zu entdecken glaube; Ps haben hier:* skulum þér vörn veita móti mönnum þeim, er þú átt við at reyna.

1) *Nur* undan *ohne* víkja *S.*

II. Tveir vóru þeir tyrvir gjarnir,
Buðlanautar, nú er brotinn annarr;
svá höfðu dvergar dauðir smíðat,
sem engi mun áðr né síðan.

III. Stendr mér at höfði hlíf in brotna, 5
eru þar taldir tigir ins átta[1])
manna þeirra, er ek at morði varð.
Liggr þar inn svási sonr at höfði,
eptirerfingi, er ek eiga gat,
óviljandi aldrs synjaðak. 10

IV. Bið ek þik, bróðir! bænar einnar,
einnar bænar, eigi þú synja:
mik skaltu verja váðum þínum, [486]
sem fjörsbani fárr annars mun.

V. Nú verð ek liggja lífs andvana, 15
marki undaðr, þannz magna sár.

10. Eptir þat dó Hildibrandr Húnakappi ok gerði Ásmundr virðuliga leizlu hans ok hugði þá illa sínu verki. Hann hitti þá ecki hertugana ok fór þá á þann bæ, er móðir hans átti ok Æsa in fagra, konungsdóttir. Þá ætlar maðr at biðja 20 hennar. Ásmundr kvað, er hann kom í hallardyrrnar:

VI. Litt varði mik laga þeirra,
at mik mannz einskis ófyrr kvæði,
þá er mik til kappa kuru Húnmegir
átta sinnum fyrir jöfurs ríki. 25

VII. Börðumz einn við einn, en endr við tvá,
fimm ok fjóra fletmegninga,
sex ok við sjö, senn á velli,
einn ek við átta; þó ek enn lifi.

VIII. Þá hvarflaði hugr í brjósti, [487] 30
er menn ellifu ofrkapp buðu,
áðr mér í svefni sögðu dísir,
at ek hjörleik þann heyja skyldak.

---

1) VIII[ta] *in der Hs. geschrieben.*

IX. Þá kom inn hári Hildibrandr
Húnakappi, hann var mér ómakr,
ok ek markaða meðan á hónum,
herkumbl harðlig fyrir hjálm neðan.

5 Eptir þat fögnuðu menn hónum vel ok var hann kallaðr Ásmundr kappabani. Konungsdóttir bað hann af sér reiði, þótt hón hefði verit í tilstilli um þetta ok lét várkunn við sik, en lét mikit atkvæði fylgt hafa vápnunum. En þótt hann hefði reiz henni, þá mintiz hann ástar hennar [1]) ok gerði brúðlaup 10 sitt ok geck at eiga Æsu ina fögru, en drap þann, er hennar hafði beðit ok er sá eigi nefndr. Síðan gerðiz Ásmundr kappabani víðfrægr ok nafnkunnugr maðr ok lýkr þar þessari sögu.

---

1) *Nach* hennar *hat die Hs. nicht* við sik *wie FAS. II 487.*

## Anmerkungen zu den Vísur der Ásmundarsaga.

*Die Vísur I—V haben eine Entsprechung in den Versen, welche bei Saxo (ed. P. E. Müller) 356 ff. der sterbende Hildigerus spricht:*

Collibet alternis devolvi fatibus horam,
Et ferro pausante solo subsidere paulum,
Alternare moram dictis animosque fovere.
Restat proposito tempus; nam fata duorum
Fors diversa tenet; alium discrimine certo
Sors feralis agit, alium potioribus annis
Pompa decusque manent et agendi temporis usus.
Sic sibi dividuum partes discriminat omen.
Danica te tellus, me Sveticus edidit orbis.
Drot tibi maternum quondam distenderat uber;
Hac genetrice tibi pariter collacteus exto.
En pia progenies trucibus concurrere telis
Ausa perit; sudo prognati sanguine fratres
Illata sibi caede ruunt, dum culmen aventes
Tempore deficiunt, sceptrique cupidine nacti
Exitiale malum socio Styga funere visent.
Ad caput affixus clypeus mihi Sveticus astat,
Quem specular vernans varii caelaminis ornat,
Et miris laqueata modis tabulata coronant.
Illic confectos proceres pugilesque subactos,
Bella quoque et nostrae facinus spectabile dextrae
Multicolor pictura notat; medioxima nati
Illita conspicuo species cælamine constat,
Cui manus haec cursum metae vitalis ademit.
Unicus hic nobis haeres erat, una paterni
Cura animi, superoque datus solamine matri.
Sors mala, quae laetis infaustos aggerit annos,
Et risum mærore premit sortemque molestat.
Lugubre enim ac miserum est dejectam ducere vitam
Et tristes spirare dies omenque dolere.
Sed quaecunque ligat Parcarum praescius ordo,
Quaecunque arcanum superae rationis adumbrat,
Seu quae fatorum serie praevisa tenentur,
Nulla caducarum rerum conversio tollet.

*Den Vísur VI—IX entsprechen die Verse auf S. 359 bei Saxo, die dort Haldanus spricht, als er in die Halle tritt, wo eben die Hochzeit der Guritha mit Sivarus gefeiert werden soll* (. . . ne vulgaris eloquii nuditate pluribus intellecta depromeret, in hunc modum abstrusa carmen ambage compegit):

Patris sceptra relinquens
Nil figmenta verebar
Commenti muliebris
Astus faemineive;
Unum quando duosque,
Tres ac quatuor, et mox
Quinos, indeque senos,
Post septem, simul octo,
Undenos quoque solus
Victor Marte subegi.
Sed nec tunc fore rebar
Propri labe notandus
Promissi levitate
Pactis illicibusque.

*Die Strophen der Saga sind offenbar sehr entstellt und wie es scheint, hat sie auch Saxo in keiner besseren Gestalt gekannt; sie sind hier genau nach S abgedruckt nur mit Beifügung der Interpunction. Die einzelnen Strophen sind in der Hs. durch grosse Anfangsbuchstaben kenntlich gemacht. Einige Emendationen hat Vigfusson versucht Corp. p. B I 190 u. 500 ff.*

**Vísa I.** Drótt] *in der Hs. mit kleinem* d, *von dem Schreiben wol nicht mehr verstanden. Jedenfalls der Name der Mutter der beiden Brüder in Übereinstimmung mit Saxo* (Drota *und* Drot *in den Versen oben S. 101*), *aber im Gegensatz zur Ásmundarsaga, wo sie* Hildr *heisst.* þik . . . mik sjálfan] *Vigfusson schreibt* mik . . . þik sjálfan *ohne Grund, denn auch nach der Saga ist Aki (Ásmunds Vater) ein Däne und Helgi (Hildibrands Vater) heirathet Hildr in Schweden; bei Saxo heisst Gunnarus, der den Helgi der Saga vertritt,* fortissimus Svecorum *und Hildigerus sagt:*

Danica te tellus, me Sveticus edidit orbis.

*Die Verschiedenheit der Praepositionen in* af Danmörku *und* á Svíþjóðu *ist auffallend und wol nicht ursprünglich.*

**Vísa II.** tyrvir gjarnir] *so S; Vigfusson vermuthet in den notes 500* tyrfingar gervir. dvergar dauðir] *also* draugar?

**Vísa III.** tigir ins átta] *so die Hs., sicher mit Vigfusson* tigar ins átta *zu lesen vgl. Saxo 356* seque septuaginta pugilum oppressione conspicuum . . .; *aber die Bemerkung Vigfussons „a word slipped after* taldir (tveir *or the like*)" *ist kaum berechtigt.* at höfði] *„certainly wrong" Vigfusson, vgl. aber* falla at höfði, in caput volvi, praecipitem dari *Egilsson Lex. poet.* eptirerfingi] æfstr, erfingi *Vigfusson. Vísa III ist überfüllt, wahrscheinlich ist nach Zeile 3 und 6 je eine Zeile ausgefallen; also ursprünglich zwei regelmässige Strophen.* Liggr *mit kleinem* l *in der Hs. also vom Schreiber nicht als Strophenanfang gedacht. In der gegenwärtigen*

*Gestalt konnte die Stelle leicht so aufgefasst werden, dass auch der Tod des Sohnes auf dem Schilde dargestellt war, und diese falsche Auffassung finden wir in den Versen Saxos. Nach der Saga tötet Hildibrandr seinen Sohn in einem Wuthanfall unmittelbar vor dem Kampfe mit Ásmundr. Wahrscheinlich war die Stelle ursprünglich klarer, als sie noch die zwei jetzt fehlenden Zeilen enthielt, aber Saxo lag sie wol schon in ihrer gegen wärtigen Gestalt vor.*

**Vísa IV.** mik skaltu verja váðum þínum] *Vigfusson conjiciert, jedoch ohne Noth* mitt skaltu verja váðum líki.

**Vísa V.** marki undaðr, þannz magna sár] *verderbt und sinnlos; die Hs. hat* ma^r^ki *mit* r *oberhalb der Linie;* mæki undaðr, þeim er magnar sár? *vgl.* sverði undaðr í Samseyju *Hervarars. Bugge 308, FAS I 427, II 219. Das* e *in* æ *kann sehr leicht mit* r *verwechselt werden*·

**Vísa VI.** *Die zwei ersten Verszeilen sind sinnlos, ich vermuthe:*

Litt varði mik laga þeirra,
at menn einvígs ófáir kveddi

*Die Conjectur* einvígis *für* einskis *verdanke ich Prof. Heinzel;* einvígis *oder* einuigis *geschr. konnte leicht als* einugis *gelesen, und dann in* einskis *verwandelt werden, worauf man das* menn *in* mannz *änderte;* einvígis *stört allerdings das Metrum, aber die Annahme einer Form* einvíg *neben* einvígi *ist nicht zu bedenklich. Ein Schreiber hat dann wol das gewöhnliche* einvígis *eingesetzt, das dann wieder als* einugis, einskis *missverstanden wurde. Auch die übrigen Änderungen sind graphisch leicht verständlich. Jedenfalls scheint mir* laga þeirra *in Verbindung mit der ff. Kampfschilderung darauf hinzuweisen, dass hier derselbe Gedanke vorliege, den Ásmundr in der Prosa S. 94 ausspricht:* hér hafa berserkir fásén lög, er tvau sverð koma í móti einu. *Die* Húnmegir *können nach der Prosa nur Hildibrandr und dessen Leute sein, welche Ásmundr auffordern, ihnen gegenüber die Sache seines* jöfurr *(nach der Prosa allerdings der Herzöge) zu verfechten. Die Paraphrase Saxos lässt vermuthen, dass er die Vísa schon in ihrer gegenwärtigen Entstellung gekannt hat; er deutet sie auf die Untreue der Geliebten, scheint also* mannz einskis ófyrr kvæði *im Sinne gehabt zu haben.*

**Vísa IX.** herkumbl harðlig fyrir hjálm neðan] *yet I marked on him hard war-tokens beneath his helmet, Vigfusson, auch Egilsson lex. poet. nota militaris, bellica, de gravi vulnere inflicto.*

## Namenverzeichnis.

## Druckfehler.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| *Seite* | 10 | *Zeile* | 16 | *lies* | þættimz | *für* | þættumz. |
| „ | 13 Anm. | „ | 10 | „ | þau | „ | pau. |
| „ | 15 | „ | 29 | „ | undir | „ | unðir. |
| „ | 31 | „ | 14 | „ | Hálfdans | „ | Hálfðans. |
| „ | 38 | „ | 20 | „ | óviljöndum | „ | öviljöndum. |
| „ | 52 Anm. | „ | 3 | „ | vel fram | „ | velfram. |
| „ | 67 | „ | 23 | „ | innhlaupa | „ | imhlaupa. |
| „ | 72 | „ | 30 | „ | konungr | „ | konungs. |
| „ | 74 | „ | 22 | „ | inir | „ | nir. |
| „ | 85 | „ | 25 | „ | tíðindi | „ | tiðindi. |
| „ | 91 Anm. | „ | 3 | „ | S. 92 *unten* | „ | S. 91 *unten*. |
| „ | 96 | „ | 20 | „ | frægð | „ | fragð. |

Druck von Ehrhardt Karras Halle, a. S.

# Altnordische Textbibliothek.

Herausgegeben von

**E. Mogk.**

kl. 8.

Nr. 1. **Gunnlaugssaga Ormstungu.** Mit Einleitung und Glossar herausgegeben von E. Mogk. 1886. ℳ 1,60

Nr. 2/3. **Eddalieder.** Altnordische Gedichte mythologischen und heroischen Inhalts. Herausg. von F. Jónsson.
- I. Gedichte mythologischen Inhalts. 1888. ℳ 3,00
- II. Gedichte der Heldensage. 1889. ℳ 2,00

---

# Quellenschriften

## Zur neueren deutschen Litteratur.

Herausgegeben von

**Alexander Bieling.**

kl. 8.

Nr. 1. **Gottscheds Reineke Fuchs.** Abdruck der hochdeutschen Prosa-Uebersetzung vom Jahre 1752. 1886. ℳ 1,60

Nr. 2. **Lebens-Beschreibung des Herrn Gözens von Berlichingen.** Abdruck der Original-Ausgabe von Steigerwald. Nürnberg 1731. 1886. ℳ 1,60

Nr. 3. **Picard, Médiocre et rampant ou le moyen de parvenir** und **Encore des Ménechmes.** Abdruck der ersten Separat-Ausgaben von 1797 und 1802. 1888. ℳ 1,60

---

# Sammlung kurzer Grammatiken germanischer Dialekte.

Herausgegeben von

**Wilhelm Braune.**

8.

**A. Hauptreihe:**

Bd. I. **Gotische Grammatik** mit einigen Lesestücken und Wortverzeichnis von Wilhelm Braune. 3. Aufl. 1887. ℳ 2,40

Bd. II. **Mittelhochdeutsche Grammatik** von Hermann Paul. 3. Aufl. 1889. ℳ 2,60

Bd. III. **Angelsächsische Grammatik** von Eduard Sievers. 2. Aufl. 1886. ℳ 4,20

Bd. IV. Altnordische Grammatik I. **Altisländische und altnorwegische Grammatik** unter Berücksichtigung des Urnordischen von Adolf Noreen. 1884. ℳ 3,80

Bd. V. **Althochdeutsche Grammatik** von Wilhelm Braune. 2. Aufl. 1891. ℳ 5,20. geb. ℳ 5,80

Bd. VI. **Altsächsische Grammatik** von O. Behaghel u. J. H. Gallée. Erste Hälfte: **Laut- und Formenlehre** von J. H. Gallée (demnächst erscheinend).

**B. Ergänzungsreihe:**

Bd. I. **Nominale Stammbildungslehre** der altgermanischen Dialekte. von Friedrich Kluge. 1886. ℳ 2,60

---

---

